# HLJÓMBROT

LJÓÐMÆLI

EFTIR

MAGNÚS MARKÚSSON





WINNIPEG
THE CITY PRINTING & PUBLISHING CO.
1924

## Ljóðadísin.

*Helga dís! Þú bendir blítt*
*böli frá til sólargeima,*
*landið þitt er ljósum prýtt,*
*líf í æðum streymir nýtt.*
*Hver fær töfraþróttinn þýtt*
*þinna djúpu strengja hreima?*
*Helga dís! þú bendir blítt*
*böli frá til sólargeima.*

*Þegar særir sorg og þraut,*
*syngur þú í hjartað friðinn.*
*Andans háa, bjarta braut*
*brosir við þitt hlýja skaut,*
*æska jafnt sem elli hlaut*
*yl við þinna strengja kliðinn.*
*Þegar særir sorg og þraut*
*syngur þú í hjartað friðinn.*

8

*Göfga dís! Þín guðleg sól*
*geislar meðan aldir renna;*
*hvert það blóm sem andinn ól*
*inst við djúp þitt finnur skjól.*
*Skært frá sálar sjónarhól*
*sannleikseldar þínir brenna.*
*Göfga dís! Þín guðleg sól*
*geislar meðan aldir renna.*

# Íslenzkan.

Íslenzk tunga, stálið sterka,
stælt við margra alda föll,
harpan dýrstu hetjuverka
hrein sem jökulfjalla mjöll,
gegnum stríð, sem örlög ólu,
áþján, helsi, fár og bál,
glóðir þú sem gull við sólu,
guði vígða feðramál.

Tungan geymir fögur fræði
fósturlands í norður-sæ,
þar sem hetjur kváðu kvæði
krafti fylt með snilli-blæ,
gegnum þing, og þrætumálin,
þungt sem fall um hrannar-lá,
þrumdi mál,—þar stungu stálin—
stórra drengja vörum frá.

Lítum yfir liðna daga,
landsins okkar þraut og stríð,
gull og stál frá strengjum braga
stráði ljósum alla tíð.
Margur hefir vel að verki
vakað fram á hinzta kvöld

til að lyfta málsins merki,
mögur þó að hlyti gjöld.

Meðan Íslands eldar brenna
upp sé fornu merki lyft,
látum málsins kraft oss kenna
kvæðasnild og andagift,
höldum fast í göfgu gildi
gimstein þeim, er sagan ól,
heilög rún á skærum skildi
skíni gegnum húm og sól.

---

## Staka.

Fylla geiminn friðar jól
frelsis ómi hlýjum.
Allan heiminn signir sól
sigurljóma nýjum.

---

## Matthías Jochumsson.

11. nóvember 1915.

I.

Öldungur bjartur!
áttræður stendur
ýtur með drengjum
í braganna höll,
ungur í hjarta,
hvassmáll sem endur;
hljómar í strengjum
svo bergmála fjöll.

Hauströðull fagur,
broshýr og blíður,
blessar nú skáldið
á hamingju-stund.
Sagnfrægur dagur
bendir og býður
bræðrum og systrum
á gleðinnar fund.

II.

Lát, Ísland, þína þökk með lotning hljóma
og þjóðarfánann gnæfa hátt í dag;
lát þína hæstu hjartans strengi óma

til heiðurs þeim, er kvað þér margan brag.
Hve fagurt brosir sól á haustsins svæði,
er signir geislum tímans regin-höf.
"Ó, guð vors lands, og lands vors guð", í kvæði
"vér lofum" hrærðir þína stóru gjöf.

Þó sölni brá, er sól og vor í hjarta
og sjónin skörp að þýða tímans rök,
því enn er sama sannleikshvötin bjarta
og sama flug með vængja regin-tök.
Svo dýrlegt haust er fáum leyft að lifa —
en lífsins braut er sífeld dular-rún.
Sé guði þökk, vort skáld er enn að skrifa
og skreyta blómum landsins Sögu-tún.

Þú fósturlandsins fráni hróðmæringur
með fjör og eld og stál og gull í brag,
hvert íslenzkt hjarta einum rómi syngur
þér ást og virðing fyrir liðinn dag.
Svo hátt og djúpt á sterka gígjustrengi
á storðu feðra enginn lék sem þú.
Þitt nafn í Sögu letrað verður lengi;
það lýsti aldrei fegri sól en nú.

Með trú á líf og ljós og kraft hins góða
þú lyftir drótt á andans sjónarhól.
Hjá menta-lindum, milli frænda-þjóða,

þitt merki skein við helgri dagsins sól.
Í Friðþjófs kvæðum hófst þú Tegners hljóma,
við helgan eld, með gullinn strengja klið;
og Ibsens ljóð þú lézt um Þorgeir óma
með list og þrótt, sem fáir jafnast við.

Þig elskar sérhver Íslands mey og drengur. —
Í æfistarfi lifir sæmd og hrós;
á öllum svæðum söng þinn hörpustrengur,
með sannleiksgildi, trúarkraft og ljós;
þú kvaðst um Hallgrím snilli-ljóð og Snorra,
er snertu lands vors dýpstu hjartarót.
Þinn andans hjör á velli skálda vorra
í vorsins hylling glóði sólu mót.

Sjá, myndastyttan hátt við himni gnæfir
í helgri minning, fyrir unnið starf.
Þá hinzta kallið hörpu þína svæfir,
fær Hólminn kæri guði vígðan arf.
Frá álfum tveimur heitar þakkir hljóma:
Lif heill! því enn er tíð að kveða óð,
með silfrað hár, í haustsins tignar ljóma,
en hjartað ungt við drottins sólar glóð.

---

## Minnisvarðinn.

(Hvöt til Íslendinga vestan hafs)

Heyr kallið þungt, en þó svo blítt
frá þjóðar hjarta-rót,
er fyllir lotning frjálst og þítt
hvern frónskan hal og snót:
að reisa bróður bautastein
þeim bezt er unni lýð,
og græddi þúsund móður mein
á meðan entist tíð.

Heyr, Ísland kallar: Komið börn
í kærri þökk og ást,
til sæmdar þeim í sannleiks vörn
og sókn, er aldrei brást,
er setti mark á móður skjöld,
sem máir engin tíð
og ljómar fagurt öld af öld
til auðnu frónskum lýð.

Nú endurhljóma orðin sterk
af okkar kæru grund,
því sagan geymir göfugt verk
frá gifturíkri stund,
þá sigurhetjan bærði brand,

sem brann af helgri glóð,
með ægishjálm, er lýsti land
og lyfti vorri þjóð.

Mín kæra þjóð, nú les og lær
þíns liðna bróður orð,
þar hljómar rödd svo hlý og skær
og helg frá móðurstorð,
er kveikti lýðsins ljós og von
með lífsins sigurkrans,
því Jón hinn mikli Sigurðsson
var "sverð og skjöldur" lands.

Fram! fram, með huga, hönd og sál
að heiðra minning Jóns,
er lagði þekking, þrótt og mál
í þarfir móðurfróns.
Á meðan Íslands æðar slá
og ýtar heyja þing
vor saga geymir göfg og há
hinn glæsta þjóðmæring.

## Jón Sigurðsson.

Hér skal mynd þín helg á velli standa,
hjá oss geyma norrænt táp og anda.
"Sómi Íslands, sverð og skjöldur" varstu
sonar nafn þess framar öðrum barstu.

Hvert þitt orð var ljóð frá lands þíns hjarta,
lýðsins hvöt, með frelsis-hugsjón bjarta.
Hver þín taug var tengd við ís og funa
til að dá og hefja Fjallkonuna.

Örugg von og ást á þjóð og tungu
eilíf kvæði þínu hjarta sungu.
Móðurlandið man þig alla daga,
meðan æðar slá og lifir Saga.

Þú ert Bifröst bræðrum tveggja landa,
breitt þó hafið freyði milli stranda,
göfgi þitt er bygging undir brúna
búið skrauti ódauðleikans rúna.

Mynd þín, vígð af eldi norræns anda,
óð og sögu vorra fósturstranda,
sé oss hvöt í sókn og stríði dagsins,
segulþráður máls og bræðralagsins.

Vertu oss á Vínlands storðu stjarna,
styrkur, tign og sigur Íslands barna.
Gegnum aldir orð þín lát oss hljóma
andans kraft í helgum söguljóma.

---

## Einar Jónsson myndhöggvari.

**frá Galtafelli.**

---

Frá smala-þúfunni horfði' 'ann hátt
til himins yfir fjöll og velli,
með von og traust og viljans mátt,
þá var hann drengur á Galtafelli.

Í bæn til guðs hann bar sitt mál,
og birtan skein á fjöll og velli,
hann kendi líf og kraft í sál;
svo kvaddi hann alt á Galtafelli.

Og drenginn leiddi lífsins hönd
við ljós og trú, sem halda velli.
Svo komst hann út í önnur lönd,
sem æskuna dreymdi á Galtafelli.

Í grjóti og málmi sá hann sjóð,
og svo var sköpuð mynd á velli.

Nú horfir með lotning land og þjóð
á listamanninn frá Galtafelli.

En listin, geisli af lífsins sól
slær ljómanum yfir fjöll og velli,
og frægir landið, sem á og ól
hann Einar Jónsson frá Galtafelli.

---

## Einar Benediktsson, skáld.

Garðarseyju glæsimenni,
greppur snjall með þor og fjör,
undir skýru, skörpu enni
skjóta gneistum augu snör.
Er sem Hekla björgin brenni
braga-þinna jötun-för.

Vorrar ættar manndóms merki,
myndin greypt í tímans skjöld,
feðra andinn strengja-sterki,
stór um lönd og höfin köld,
frægir enn í vilja og verki,
vafurlogum stund og öld.

Geist um andans geim þú svífur,
gígjan þrumar sterk og há,
eins og þegar elding klýfur
öldur storms um loftin blá.
Lýðsins sál í ljóði hrífur
list þín málsins rótum frá.

Aldrei göfgi gildi týnir
guði vígð um lífsins höf,
æfistarf þitt sjóðinn sýnir,
sem ei byrgir húm né gröf,
djúpir hörpuhljómar þínir,
heillar þjóðar sigurgjöf.

Gildi mögur fanna-frónsins,
frjáls sem blær á hrannar ál,
hvast í öndveg hörpu tónsins
hljómar andans bjarta stál.
Hróðrar örn, með huga ljónsins,
helgan þrótt og eld í sál.

Þinna strengja megin máttur
manndóm fylli vora sál,
dýrra ljóða lyfti háttur
lífsins yfir glys og tál.
Þar er Íslands æðasláttur —
okkar dýpsta hjartans mál.

## Til konu minnar.

(4. janúar 1910.)

Nú vil eg syngja söng um þig,
í sæld og neyð er studdir mig,
um tvenna tugi ára;
þá batt oss drottinn böndum þeim
er björtu ljósi skreyta heim,
þó stynji stunda-bára.

Þá brosti sumarsólin há
og signdi þína léttu brá
með æskublíðan bjarma.
Nú sígur haust á lífsins leið,
en lof sé þeim er mældi skeið,
þess yndi alt og harma.

Því lengri sem að leiðin er,
þess ljúfari þú verður mér,
það helga, háa, stærra.
Hvert lán og tap um liðin ár,
er leiddi með sér bros og tár,
var gjöf, sem hóf þig hærra.

Ó, móðir, kona, leiðarljós,
sem lífgar hina veiku rós

unz laufin björt hún breiðir;
hver telur öll þín tár og sár,
þín frygðaspor og reynsluár,
sem benda lífsins leiðir.

Sjá, börnin nú þitt blessa starf,
hið bezta gafstu þeim í arf
af helgum móður mætti;
við hinzta æfi andartak
skal orð mitt vera þakkar-kvak,
til þín, sem þeirra gætti.

---

## Þjóðernishvöt.

---

Ó, lyft þér, sál, á sögustaði forna,
að sjá og skoða feðra mátt og völd,
hvar geislar helgir endurminning orna,
þar íturmenni báru sverð og skjöld
og drengur hver á dáð og mannúð treysti,
af dýpstu rótum trygðin stilti lag,
þá svall í taugum hetjugeð og hreysti,
sem heldur velli fram á þennan dag.

Þó streymi tíð, og lögur skilji landið
þar lágt í moldu hvíla feðra bein,
vér eigum sjóðinn, bróður- hlýja -bandið,
er blómum skrýðir okkar þjóðlífs grein;
vor ætt er stór, frá stofni gildum runnin,
í sterkum taugum lifir þor og dáð.
Að byggja hátt—því bjarg er lagt í grunninn—
og beita djarft, sé okkar mark og ráð.

Vér eigum gull í sögu, söng og kvæðum,
þá sækonungar rendu gnoð um höf
með frelsis þrá og eld í hraustum æðum;
það erfðafé er heilög sigurgjöf.
Er nokkur sá, með norrænt blóð í hjarta,
sem nema vill ei göfgra feðra óð?
— Á þjóðlífs himni, þar er stjarnan bjarta
með þúsund ljós er stafa frægðar glóð.

Já, lítum Alþing, löngu frægt í sögum,
af lýðmæringum sett að vernda þjóð;
þar sókn og vörn var helguð landsins lögum
og list og snilli örugt vígi hlóð;
þá greru blómin björt á morgni heiðum,
er bárust gegnum margra alda föll,
og breiða nú sín blöð á okkar leiðum
með bending til að prýða nýjan völl.

Í listum Gunnars, gáfum Njáls og Snorra
og Grettis þreki, Héðins djörfu sál
og göfgi Halls, er gildi feðra vorra,
— þar geymir sagan ódauðleikans mál! —
Já, lifi hreysti, táp og norræn tunga,
er tengi böndum oss við móðurláð,
og látum sjá, að okkar landið unga
hér elur blóm af fornri trygð og dáð.

Við dagsins starf skal feðraminning frægja,
— í frjálsu landi hefja merkisstöng.
Já, látum oss ei orðstír fornan nægja;
en upp og fram, því mentabraut er löng!
Í huga, orði, hegðan, dug og ráði
sé helgum rúnum skráð vor kappa-öld!
Já, tignum alt, sem lyftir ættarláði
og ljósum fágar tímans söguskjöld.

Já, verum trúir; tengjumst helgu bandi,
svo týnist ekki vorrar móður skraut,
og stofnum þing í þessu nýja landi
til þjóðmenningar fram á tímans braut.
Já, reisum höll og byggjum glæstar búðir,
á bekkjum ljómi norræn ættar-sól,
þar skipa sæti sveinar lands og brúðir
og Saga gyllir fránan Heklu stól.

## Vorgyðjan.

Blessaða vorgyðjan blíða
brosir við öllu í dag,
hljómar um himininn líða
hlýir með gleðinnar lag,
alt sem að lifir sér lyftir
leyst eru þrautanna bönd,
veturinn valdinu sviftir
vermandi lífgjafans hönd.

Yndæla vorgyðjan varma
vald þitt er mikið og hátt,
ást þín í blikandi bjarma
brosir frá sérhverri átt.
Eilífur æskunnar sjóður
aldanna vonblíða skjól,
dýrð þín með gleði og gróður
geislar af kærleikans sól.

Vorgyðjan helga og hlýja,
himinsins dýrlega mynd,
hljómandi gróandans gígja
geislandi vonanna lind,
bros þitt er huggun í harmi,

hjartanu unun og fró,
í þínum blessaða barmi
blikar hvert lauf sem að dó.

Vor, þú ert almættisóður
eilífri framþróun skráð,
allur þinn glitrandi gróður
geislar af speki og náð.
Himneska brosið þitt bjarta
bendir að ljósinu hátt.
Send oss þitt sólskin í hjarta,
samúð og kærleikans mátt.

---

## Skarphéðinn á Markarfljóti.

Geislar dagsins glóðu móti
glæstum klæðum hildar báls.
Harðfengir í hjörva róti
héldu beint að Markarfljóti
Kári', og svinnir synir Njáls.
Hugðu Þráinn seinn til sátta
sækja fimm á móti átta,
deyja eða duga frjáls.

---

Héðinn vaskur var þar fyrstur,
veginn mældu augu snör,
Rimmugýgi brúna byrstur
bar hann nú, til víga þyrstur,
svall í taugum táp og fjör.
Klæddur var hann kápu blárri
karlmannlegur, öðrum frárri,
sinnið brann í svaðilför.

Milli ísa straumur stríður
stinnra drengja hefti skeið.
Langt finst þeim, sem búinn bíður,
blóðið trylt í æðum sýður,
hetjan engri hættu kveið.
Líkt sem kljúfi loftið örin
létt, um öxl með reiddan hjörinn
Skarphéðinn tók skemstu leið.

Út á svellið svifa hraður
svinnur tók hann geysi sprett,
hug og þreki hertýgjaður
hefir aldrei nokkur maður
frægra mark á ferðum sett.
Ýturmennið orku snara
álnir tólf á milli skara
yfir straum sér lyfti létt.

Þar mót átta einn hann rendi,
exin bitur gnæfði hátt,
lagið þétta Þráinn sendi,
þar ei stoðar fjöldans kendi
móti Héðins hug og mátt.
Fáir greiða höggið hraðar,
hjörinn nam í tönnum staðar,
hinir fengu hjartaslátt.

Heill af skæðum víga velli
vina sinna komst hann til.
Þráinn firtur eymd og elli
eftir lá á köldu svelli,
fjöri rúinn fleins í byl.
Kári mælti: "Knátt er farið."
Kappinn gaf í ljóðum svarið:
"Sýnið Hrapp og hinum skil."

Þegar grimm og blóðug brenna
bólið fríða huldi mökk,
þung var Héðins hinzta senna,
hamlað vörn, og sverð að spenna
heljar þruma dundi dökk.
Geymdu þjóð í gullnu móti
garpinn, sem á Markarfljóti
milli skara skeiðið stökk.

## Víg Höskuldar Hvítanesgoða.

Vélaráð um Vörsabæ
váleg anda köldum blæ,
Mörður brögðin böls og táls
búið hefir sonum Njáls;
þar hans lýgi, last og flærð
lýsti sér í fylztu stærð.
Grimmilega galt nú þess
goðinn frægi Hvítaness.

Synir Njáls um nætur-skeið
nú með Kára gengu leið,
blektir Marðar mælsku gnótt,
móði fyltir, hug og þrótt.
Heim á goðans höfuðból
haldið var þá lýsti sól,
til að heyja harðan leik;
heljar nornin glotti bleik.

Höskuldur frá hægum blund
horskur reis á morgun-stund;
glæstri skikkju Flosa frá
fríður goðinn klæddist þá.
Út til verka einn svo gekk,
engin svik nú grunað fékk.

Þarna rændi fjöri og frægð
fólska, lýgi, vél og slægð.

Í því Héðin ört að bar,
exi brá og mælti snar:
"Undan hér ei hopa þú,
Höskuldur, en ver þig nú."
Höggið reið, en hels á slóð
heitt þar dundi goðans blóð.
Allir báru á hann sár,
eins og réði Mörður flár.

Unnið hroða vígið var,
vond sem eftirköstin bar.
Bræður eftir fölvan fund
ferðum sneru heim um grund.
Bergþórshvoli bölþrungin
bárust þungu tíðindin.
Njáll varð þögull, hrygðin heit
hjartans instu rætur beit.

Vitur lagavörður tér:
"Vildi eg mína syni hér
heldur tvo á heljar brú,
Höskuldur ef lifði nú.
Sé eg rituð svipleg gjöld

sona minna og brúðar kvöld."
Seinna rættust öldungs orð,
eymd og tár, sem bar um storð.

Hildigunnur blundi brá
bóli fríðu goðans á,
Höskuldur var horfinn braut,
harðir draumar spáðu þraut.
Út hún gekk og örendann
ástvin kæran líta vann;
flakti af sárum fölur nár
fljóðs af augum hrukku tár.

Blóðgan náinn þerði hún þar,
þögult hatur brjóstið skar,
væna flík — í þungri þraut —
þar hún dreyrga saman braut.
Svo gekk hún á Flosa fund
föl, og mælti hörð í lund:
"Skikkju, vin er skeinktir þú,
skila eg aftur, hefndu nú."

## Gunnar á Hlíðarenda.

Hlíðarenda hetjan prúða,
hár og þrekinn, snar og beinn,
gekk á milli glæstra búða,
Gunnar, klæddur tignarskrúða,
fránhýr, bjartur, frjáls og hreinn.
Ferðum ytra frá hann tjáði,
fleins við gný á sæ og láði
frægri sigur fékk ei neinn.

Þá var bjart um velli víða,
vit og göfgi héldu ráð,
yfir svein og svannan blíða
sólin skein á hólmann fríða,
frelsið krýndi lög og láð,
fjör og hreysti, dáð og dygðir
djúpt um allar landsins bygðir
höfðu traustum tökum náð.

Gunnar frækinn merkra manna
margra þáði verðugt hrós,
hann þar meðal höfðingjanna
hugði víða leið að kanna —
þarna mætti' 'ann dýrri drós.
Hann var glæstur hreystimögur,

hún var skrautleg, kæn og fögur,
strax hjá báðum brunnu ljós.

Lengi bíða ekki eirði' 'ann,
einkamálin flutti þíð.
Kosti og lesti hennar heyrði' 'ann
Hrúti frá, en ástin reyrði' 'ann,
Hallgerður var heitin fríð.
Nú var ekki Njáll í ráðum,
nornir Skuldar vöfðu þráðum
yfir kappans auðnutíð.

Hallgerður á Hlíðarenda
harðráð þótti, flá og köld,
marga drengi lét hún lenda
lágt í mold til Heljar senda,
víðtæk urðu vígagjöld.
Ætíð Gunnar góðra vina
geymdi trygð, í sókn við hina,
hlaut um sveitir sæmd og völd.

Ýmsir högg í annars garði
áttu þá með stálin blá,
einn þar sótti, annar varði,
aflið stælti þankinn harði,
Gunnar einatt atgeir brá.
Loks var kappinn lista slyngi

lýðmæringum af á þingi
sekur dæmdur Fróni frá.

Þegar búinn síðsta sinni
svásu bóli reið hann frá,
fegurðin í Fljótshlíðinni
fyr svo aldrei stóð í minni —
aftur sneri hetjan há.
Vörnin hans á hinztu stundu
hljómar enn um sæ og grundu;
enginn frægri látinn lá.

Gunnar lifir enn í æðum,
aldrei gleymist listin há.
Fjör og þrek úr fornum glæðum
finst í verki, hug og ræðum,
hvar sem íslenzk hjörtu slá.
Ennþá flýgur ör af boga,
aldir kynda vafurloga
Hlíðarenda hólmans frá.

## Haustnótt.

Góða nótt! úr öllum áttum
ómar haustsins skauti frá,
djúpum lífsins laga þáttum
lúta öflin stór og smá:
Hægt og rótt í húmið kalda
hníga sumarblómin fríð,
dimm við ströndu drynur alda
dómi, sem boðar feigð og stríð.

Bitur húmsins bylgjan djúpa
berst um loftið, jörð og haf,
meðan frost og fannir hjúpa
fegurð þá, sem vorið gaf.
Hulinn kraftur öllu yfir
eilíf vefur geislabönd,
kennir oss að ljósið lifir
leitt af drottins náðarhönd.

Syrgjum ekki bjartra blóma
brosið, sem á vetri dvín
aðeins til að endurljóma
aftur, þegar vorið skín.
Fagra haust, með frið og næði,

faðm, sem vefur djúpt og rótt,
öll þín blíðu kvöldsins kvæði
kalla til vor: Góða nótt!

---

## Haust.

Eg heyri haustið kalla
með harðan skapadóm,
og sé hvar fölnuð falla
hin fríðu sumarblóm,
eg lít á lundinn auða,
þar lögin standa skráð,
við djúpið lífs og dauða
með drottins kraft og ráð.

Eg stend á strönd við hafið
með straumaföllin djúp,
og lít á lífið vafið
í leyndardómsins hjúp,
frá bjartri himins höllu
í hylling ljóma bönd,
með ljósið yfir öllu
þar eilíf stjórnar hönd.

Nú drúpir björkin bleika
og blómin hvíla deydd,
á vorsins skrautið veika
er voðin kalda breidd.
Eg heyri kvöldið kalla
með krafti þrungið hljóð,
og hádags hljómar falla
í haustins vögguljóð.

Vér syrgjum sumardaga
með sólaryl og skraut,
og hljóminn ljúfra laga
er létti tímans þraut.
Oss hræðir haustið kalda,
sem hylur dýrstu blóm,
þá syngur sérhver alda
hinn sára feigðardóm.

En hví skal hræðast dóminn
með húm og feigðarstríð,
því aftur blika blómin,
þá brosir hlýrri tíð.
Þótt svíði sorgin bitra,
er sigur lífsins hár,
og geislar vorsins glitra
í gegnum haustsins tár.

## Til íslenzku bygðarinnar

### í Mordenhéraðinu.

Skagfirðinga bygðin vonar bjarta
búin-skrauti fríð á sumartíð,
þú átt eld og æskufjör í hjarta,
andans þrótt að heyja dagsins stríð.
Hér skal frónsku fræi sáð til þrifa,
fagra velli prýða býlin há.
Kolbeins unga afl og djörfung lifa,
eikur vaxa gildum stofni frá.

Fljóð og menn í frjórri Vesturálfu,
fram að sigra hverja raun og þraut.
Bróðurþeli heilu' en ekki hálfu
helgið ykkar starf á tímans braut,
sátt og eining heiðurskransinn hlýtur,
hagsæld, traust og þjóðarmenning grær.
Hvar sem íslenzkt eðli bezt sín nýtur,
er vort land, þó strendur skilji sær.

Sveitin glæsta, geymdu feðra snilli,
göfgi, festu, sögu, mál og ráð,
vinn þér guðs og góðra manna hylli,
gæfu marki sönnu þá er náð.
Lærðu fræðin drengskapar og dygða,

dags þíns merki rísi hátt við sól.
Vertu fyrst í framsókn allra bygða.
frjáls og hrein á þínum veldisstól.

---

## Gamla árið 1917.

Hinztu hljómar falla
heims um vegi alla.
Lífsins herra hár,
himinn, jörð og hafið,
hátign þinni vafið,
signa endað ár.

Nóttin náðar blíða
næring allra tíða
faðmar friði skeið;
aðeins endurminning
yfir tap og vinning
eygir liðna leið.

Eftir nítján aldir
ennþá stormar kaldir
trylla tímans haf.

Hvað er lært og lifað,
lesið, geymt og skrifað
orð, sem guð oss gaf?

Aldrei alheims láði
aldasagan skráði
hærri hildarleik.
Stærstu þjóðir stríða,
stafar böl og kvíða
stundin bana-bleik.

Far vel, ár, með fræðin,
fjörtjón, sár og gæðin,
út á eilíf höf.
Sérhver stund er sjóður,
sigur lífs og gróður,
reynslan guðs vors gjöf.

## Nýársdagur 1918.

Skuggar flýja, hýrga heim
hljómar gígju blíðir,
vekja hlýjan unaðseim
ársins nýju tíðir.

Heljar þó að þrautabál
þungt að snjói trega,
veitir fróun veikri sál
vonin ódauðlega.

---

## Hin deyjandi móðir.

Nú kveð eg og signi minn kærasta stað,
og kem ekki framar til baka;
þó hálfgert sé verkið, sem hlúði eg að,
eg hlýði, því lífgjafinn tilskipar það;
á himninum vonirnar vaka.

Eg kveð ykkur, börn mín, þið afsakið alt,
eg orkaði litlu og fáu;

mitt lík verður bráðum í kistunni kalt,
það kennir að ráð okkar manna er valt
und lögunum helgu og háu.

Á samleið með ykkur eg sælunnar naut,
þar sigraðist bölið og stríðið.
Ó, guð veit mig langaði lengra á braut
að leiða' ykkur saman, en dagurinn þraut,
en treystið og biðjið og bíðið.

Hve sælt er að losast við líkamans bönd,
ef leiðina raunirnar þyngja;
eg sé yfir hafið á sólríka strönd,
þar systkinin ykkar nú bjóða mér hönd
og brosandi sigurljóð syngja.

Nú kveð eg og þakka hvern ástríkan óð
og ylinn frá góðvina hjörtum;
ef þung reyndist mæðan á meðan það stóð,
er miskunin eilíf og heimferðin góð
að friðarins bústöðum björtum.

Ó, blessaðu, drottinn, þau blóm, sem eg ól,
já, blessa þeim gleði og tárin;
í vorbrosi þeirra eg sá þína sól,
nú set eg mitt traust á þitt líknandi skjól
með þökk fyrir útrunnin árin.

Það syrtir! eg kveð þennan hverfula heim
til himins er ferðinni snúið;
nú birtir, eg líð inn í geislandi geim
til guðs; þar við kærleikans eilífa hreim
eg lifi, því bölið er búið.

---

## Linditréð.

(Þýtt.)

Við brunn hjá bæjarhliði —
mér brosir linditréð,
svo oft mig í þess skugga
um unað dreyma réð.
Á börk þess ástarorðin
eg einatt skráði hlýtt,
og sæla jafnt og sorgin
mig seiddi' í skjól þess blítt.

En nú með sorgþungt sinni
eg sveima hlýt um nótt,
og svip þess glögt eg greindi
í gegnum húmið rótt.
Svo ljúft þess limin bærðust, —

sem líði kall til mín:
kom hingað hjartans vinur,
því hjá mér friður skín.

Og byrstir vindar blésu
svo bitrir mér í fang.
*Minn bær varð langt að baki,*
á braut eg herti gang.

En nú í fjarlægð falið
er forna, kæra tréð;
mér finst sem enn það ómi:
Þér unað get eg léð.
Þó eg sé frá þér farin,
mitt fagra linditré,
þitt bros *með friðinn blíða*
í bjartri mynd eg sé.

---

## Vorið.

Í sólgeislum baðar sig dúftið í dag
við dýrlega kliðinn,
því vorið er komið með vonanna brag
og veturinn liðinn.

Já, vorið er komið að lýsa á leið
það lága og háa;
sjá almættisletur til lífsins frá deyð
— á laufinu smáa.

Við titrandi hörpunnar indæla óm
um alveldis hafið,
nú er sem að skíni hvert ástfólgið blóm,
sem áður var grafið.

Hver glitrandi lilja við gróandans barm
er geislandi hylling;
þar sjáum vér kærleikans alvalda arm
í eilífri fylling. —

Ó, blessaða vor, þú ert sól vorri sál
og sannleikans óður;
hvert blóm, sem þú elur, er ódáins mál
um eilífan gróður.

## Í einrúmi.

(Í janúar 1912.)

Nú er þetta hús svo kalt og hljótt,
hörðu kjörin þrýsta fast að barmi;
mér finst lífið nöpur kuldanótt,
negg í brjósti titrar, þrungið harmi.
Hún, sem vakti, vermdi, gladdi alt,
verður nú að þola sár og líða. —
Ó! hve lífsins lán er stundum valt,
leiðin grýtt og þungt í neyð að stríða.

Þó er lán og líkn með hverri þraut,
lífsins sigur brosir gegnum tárin;
þegar gengin þung og hörð er braut,
þá er sælt að líta horfin árin.
Eilíf sól frá skauti djúpu skín,
skýrir, fræðir, huggar, styrkir, vekur.
Í því ljósi lít eg sporin mín;
lof sé þeim, sem gefur alt og tekur!

Móðurhöndin helgar sérhvern stað,
hún í grunninn leggur fyrsta steininn;
þegar sorg og þrautin kallar að,
þar er skjól að græða tár og meinin.
Göfga kona, lands og lýða traust,

ljós frá vöggu alt að grafarhúmi!
Frá þér hljóma himins eilíf raust,
hvorki bundin tíma, stað né rúmi.

Heimilið er hljótt og snautt og kalt,
hún er brott, sem vermdi það og gladdi;
húmi sveipast æfiskeiðið alt,
aldrei betri móðir garð sinn kvaddi.
Ó, sú leið að líða sár og þraut,
liggja fjarri stað, sem hjartað dreymir,
þá er aðeins eitt sem lýsir braut: —
Eilíf von og trú, er sálin geymir.

Eg hef lengi strítt á þessum stað,
strauminn klofið eftir mætti veikum.
Hallar degi, haustið kallar að,
hnýpa fölnuð lauf á greinum bleikum.
Hvað er unnið? Aðeins fáein tár,
endurminning blönduð sorg og gleði.
Hvað er lífið? Fljót og fallvölt ár,
fleygistraumur út að dauðans beði.

Hví skal æðrast? Innra ljósið skín,
endurminning þess, er hugann kætti.
Guð! eg þakka æfiárin mín,
ástvin hvern, og missi þann er grætti.

Lyft þér, andi, yfir húm og stríð,
enn er gleðin sorg og þrautum hærri.
Þegar endar þessi reynslutíð,
þá er himins friður öllu stærri.

---

## Við Winnipegvatn.

Við hafsins heiði bláa
í helgri sigurmynd,
þar baðar björkin háa
sín blóm í daggar lind;
hver rós á rjóðum bala
nú reisir merkið hátt,
og allar tungur tala
um tign og alheims mátt.

Með fegurð, fjör og gleði
og frelsi, von og skjól,
á fold og báru-beði
nú brosir alt við sól;
sjá, himins geislar glitra,
er græða þúsund mein,
og töfra hljómar titra
svo tárin væta stein.

Frá glaum og gleði-solli
hér griðastaður finst,
þar blíði blærinn holli
í brjóstið streymir inst;
hve ljúft er hér að læra
og lesa alheims mál,
og nýja krafta næra
við náttúrunnar skál.

Ó, lagarflötur fríði,
þín frægð er víða kunn,
þú nærðir löngum lýði
við lífs þíns nægtabrunn;
á þínum sterku ströndum
hver stundin hækkar brag
og tengir blómin böndum,
er boðar fegri dag.

Við hafsins heiði bláa
er herrans veldi skráð,
hið þreytta, þjáða, smáa
fær þrótt og nýja dáð;
hér faðmast land og flæði
með fjör í hverri taug,
og hlýjan hljóm í kvæði
við himins náðar laug.

## Jólin.

Nú heilsa oss jólin með fögnuð og frið
og frelsisins himneska mál;
þau koma með gleði og líknsemd og lið,
og ljósið í barnanna sál.

Þau koma með sigrandi sannleikans mátt,
og signandi kærleikans skjól;
já, alt sem er göfugt og guðlegt og hátt,
er geislinn frá þessari sól.

Þau koma að auðga hvern einasta mann,
því elskunnar kraftur er hár,
í kotungsins hreysi og höfðingjans rann
með huggun og þverrandi tár.

Þau koma með boðskap um bjartari tíð,
og brosandi kærleikans skraut;
þau koma að létta hið stundlega stríð,
og styrkja hinn veika í þraut.

Þú máttuga, vermandi mannlífsins sól,
er myrkrinu léttir af braut,
nú boðar þú öllum þín eilífu jól,
og alföður líknandi skaut.

## Til B. L. Baldwinsonar,

á 60 ára afmæli hans, 26. október 1916.

Ungur gegnum brim og boða,
Baldvin, þessa komstu leið,
til að læra, leita, skoða,
löndin nema frjó og breið;
vígt af morgun vonar roða
við þér brosti fagurt skeið.

Þú varst snemma snar að verki
snjall með dug og heilnæm ráð,
djarfur lyftir lýðs þíns merki,
lands við hjarta fanstu dáð;
víkings-ættar viljinn sterki
vann í sókn, af kappi háð.

Fram í broddi frónskra lýða
fylgi þú oss veittir traust;
mark þitt var að starfa, stríða,
stefna djarft og kvíðalaust.
Ennþá brennur æskutíða
eldur, þó að komi haust.

Lengi fórstu landa milli,
lýstir þjóð um höfin víð;

ýmsra fékstu hrós og hylli,
hinna bitur orð og stríð;
örvahríðin hörð þó skylli,
hélztu velli alla tíð.

Sex við tugi ára ýtur
enn þú prýðir landnáms reit;
hetja, lífs á hólmi nýtur
hjör þinn glæstur jafnan beit;
þökk og virðing því nú hlýtur
þú frá vorri bræðra sveit.

Þó að dómur lífsins laga
leggi hold í grafarskaut,
skír þín verður skrifuð saga,
skærar rúnir merkja braut,
þar sem leið vor liðna daga
lá í gegnum stríð og þraut.

## Sumardagurinn fyrsti.

Þó brautin mín lengist og breytt sé nú hag
frá bernskunnar tíðum eg man þennan dag,
við systkynin gengum að sjónum,
þá brosti hver alda um blikandi flóð
og þar okkur töfrandi fagnaðar ljóð
með ástríkum unaðar tónum.

Hjá nágranna börnunum mæltum við mót,
og munhlý var gleðin af einlægri rót,
við sólskin í suðræna blænum.
Hver lækur var óður um unað og frið,
og elfurnar streymdu með vondjúpum klið
og svifu með hraða að sænum.

Þar skeljar og kuðungar glóðu sem gull
og gleðin var saklaus og ánægjufull
á ljósríkum bernskunnar bárum.
En framtíðarbrautin var hulin í hjúp
með harmsins og sælunnar örlagadjúp
á flughröðum æfinnar árum.

Og margt hefir sumarið brosað mér blítt
með blikandi skrautið og sólskinið hlýtt,
en aldrei sem ungum þar heima.

Á sérhverju blómi og líðandi lind
skein ljósið og gleðin í helgustu mynd,
hve ljúft er um dag þann að dreyma.

Kom, vonblíða sumar, með sælunnar klið
og syngdu þinn huggandi unað og frið
við söknuðinn, sárin og tárin.
Hver hjalandi lækur og líðandi blær
og lauf, sem við geisla og dögg þína græ[illegible]
er óður um bernsku-lífs árin.

---

## Kveðja

til hr. Stefáns Björnssonar, við burtför hans til Íslands.

---

Far heill á leið um höf og storð
til hólmans út í norðursænum.
Frá vinahóp með hjartans bænum
þér fylgir hugur, hönd og orð.
Nú hyllir brúnir blárra fjalla,
og börnin vorrar móður kalla:
"Kom, bróðir! heim, vér þráum þig."

Hver dagur, sem þú dvaldir hér,
í dýrum sjóði verður geymdur;

hví skyldi nokkur nýtur gleymdur,
sem orðstírs hefir aflað sér.
Þú háðir með oss hildi prúða
af hug, sem gylti letur skrúða
og sveipar ljósi söguskjöld.

En hversu blitt sem feðra-frón
í framtíð sina arma breiðir
mót þér, um huldar lífsins leiðir
þá rendu hlýrri hugarsjón
mót hverri rós í vesturvegi,
sem vex og spáir betri degi;
það tengir okkar land við land.

Far heill á braut með börn og fljóð;
þig blessi drottinn allar stundir;
en mundu oss, þó fækki fundir,
og milli stranda freyði flóð.
Ef aldan ber þig aftur vestur,
þú átt hér land sem heiðursgestur.
Í ást og þökk far heill um haf.

## Vorstökur 1916.

Sólar æðar allar blæða
yfir hæðir, grund og dal:
lifna kvæði, lækir flæða,
ljósin bræða jökul sal.

Skína tindar, roðna rindar,
runnar mynda fríðan kranz;
blíðir kynda vorsins vindar
von og yndi hjarta manns.

Gróður fagur gyllir haga,
gígjur braga óma snjalt;
vísdóms laga-lýsir-saga
lífsins daga skeiðið alt.

Fossar syngja, föllin þyngjast,
fannadyngjur verða hljóm;
ljóðin klingja, kraftar yngjast,
klukkur hringja vonar óm.

Lindin hlær, en hlýi blærinn
hörpu slær með gleðiljóð;
fjær og nær er fold og særinn
fáguð skærum nægta sjóð.

Lífsins máttur ljóss af þáttum
ljómar náttúrunni hjá,
lágt og hátt úr öllum áttum
andardráttinn heyra má.

Eftir kvíða hels og hríðar,
hjarn og stríðið blóði skráð,
vorsins tíðir vonar blíðar
veitir lýðum himins ráð.

Meðan þjóðir baðast blóði,
brendar glóð, sem hatrið ól,
blómin góðu guðs úr sjóði
glitra rjóð við dagsins sól.

Grimt við bál og blóðug stálin,
blindni, tál og heimsku pör,,
horfir sálin yfir álinn;
æðri mál þar skapa kjör.

Hvað mun lengi heims um vengi
heypt og þrenging tvinna bönd
Lýst ef fengi friður mengi,
fegra gengi krýndi lönd.

Kærleik hrifin öllu yfir
eilíf skrifar höndin mál;

storms við svifin letrið lifir,
lög, sem bifar ekkert tál.

Þótt hið illa afl með trylling
orra stilli grimman brag,
yfir villu-vald og spilling
vorið hillir sælli dag.

---

## Halldóra Olson.

Þér, heiðurs svanni, hausts á degi blíðum
frá hjartans grunni vinir syngja óð,
og þakka fyrir fylgd á liðnum tíðum,
þitt fagra starf er lýsti menta glóð.
Að rétta veikum hönd og göfugt hjarta
í hverju stríði, var þín löngun sönn;
þú gafst oss marga glaða stund, og bjarta,
sem gleymist ei, þó freyði tímans hrönn.

Þú hefir stigið stærri spor en fjöldinn
af sterkum vilja fögru marki náð,
og þó að löngum lítil væru gjöldin,
þitt lífsstarf verður helgri minning skráð.

Hið góða pund, af herrans hendi þegið,
varð hundraðfalt, þú grófst það ei í jörð,
og þegar alt er virt, og mælt, og vegið,
það varðar mestu handan tímans fjörð.

Þú, göfga kona, stór í raun og starfi,
er styrk í sæld og þraut oss hefir veitt,
þitt fagra dæmi aldir fá að arfi,
þau andans blóm, sem fær ei grandað neitt.
Að heil þú lengi megir með oss vinna,
er mál vors hjarta þennan glaða dag,
við haustsins skraut í skjóli vona þinna,
sem skíni fram á hinzta sólarlag.

---

## Áramót.

Gamlárskvöld, þinn aftansöngur ómar,
ótal þúsund samstilt hörpu-ljóð,
feigðarbros þitt fold og höfin ljómar;
far þú vel í lífsins alda-sjóð.
Öll þín saga, sæla jafnt og tárin,
sættir oss við þína gengnu braut.
Þá sem dagur okkur sýnast árin,
er að baki hvílir sigruð þraut.

Máttug, eilíf elfa tímans streymir
út í — sjónum hulið — regin-djúp;
enginn veit hvað árið nýja geymir
undir lífsins dularfulla hjúp.
Treystum, vonum, tjáir ei að kvarta,
tafli stýrir ljóssins kraftur hár.
Kvíðum ekki. Kveðum glöðu hjarta:
Kom þú blessað til vor, nýja ár!

---

## Hið íslenzka Eimskipafélag.

Vösku drengir fósturlandsins forna
fram á nýrri sækonunga tíð,
gildum taugum eldar helgir orna,
upp, að kanna höfin djúp og víð.
Látið glæstar gnoðir milli stranda
geisa djarft um sollið ránarból;
fáninn bjartur bræðrum tveggja landa
blakti gyltur, dagsins heillasól.

Breitt er hafið, hátt skal merki lyfta,
hrannir kljúfa megin traustur stafn;
burt úr vegi sundrung allri svifta,
sigri krýna vorrar þjóðar nafn.

Sól af heiðum himni lífsins vonar
hlær í gegnum margbreytt stunda kjör.
Orminn langa Ólafs Tryggvasonar
endurskapar norrænt þor og fjör.

Íslands merki! mæn þú ofar fjöllum
móti sól á tímans þroska leið;
heilla vættir víkings niðjum öllum
veiti fylgi, hvar sem brunar skeið.
Álfum tveimur beztu kraftar binda
bróðurtrygð og veruleikans hag.
Eleyin-brú á milli landa mynda,
menning hillir vonar bjartan dag.



---

## Herhvöt.

Með brezka fánann skal fram í dag
í fylking til austurs, þar skotin dynja,
að lyfta kröftum í lands vors hag
sé löngunin hæsta, vort sverð og brynja
Nú kallar skyldan helg og há
á hrausta drengi, fjötrum verjast,
og aldrei láta ánauð þjá,
við eld og stál sem hetjur berjast.

Þú, landið unga, sem átt vor börn,
vér allir þér sórum að festa trygðir,
og sýna bæði í sókn og vörn,
að syni þú fóstrar með kjark og dygðir.
Nú drynja lúðrar! flýtum för
í fylking þéttri. einum huga,
og reynum þróttinn, þor og fjör,
við þrautir falla eða duga.

Þá stríðið endar, vér höldum heim,
þar hagsæld og friður skal ráða lögum;
og minningin lifir í þáttum þeim,
sem þjóðræknin knýtti á liðnum dögum.
En nú skal stefnt í austurátt,
þar ólgar blóð á styrjar túnum,
að verja frelsi, fjör og mátt
og fylkja djarft í móti "Húnum".

---

## Heimilið þitt.

Lauslega þýtt, eftir Edgar A. Guest.

Safnaðu veraldar orðstír og auð,
þó alt þetta brosi þjer við,
þú leitar að hjarta þíns helgasta draum,
að hugarins gleði og frið.
Lát fjöldann þér hrósa, og hefja þitt nafn,
og heiminn að frægð þinni dást,
en aldrei í sannleika sæll ertu þó,
ef sál þína vermir ei ást.

Það hús, er þú byggir, sé ljósgeislalind,
sem lífgar, ef hjartað er þyrst,
og hvort sem þitt heimili' er hátt eða lágt,
það hlýtur að vera þér fyrst, —
fyrst þínu ráði, og fyrst þinni hönd,
hin fyrsta og síðasta þrá,
svo vinnir þú annara virðing og traust,
það verður að stafa því frá.

Gleð það í harmi og sýndu því sátt,
að sundrung ei festi þar rót;
lyftu þeim hjörtum, er húss þíns við dyr
horfa þér fagnandi mót.
Glæð þeirra áform til alls, sem er gott,

svo eignist þú virðing þeim hjá,
og þar átt þú huggun og himneskan auð,
þó heimurinn snúi þér frá.

Bú þér það, heimili, bróðir minn kær,
er brosir af samúð og dygð,
svo getur heimurinn sagt hvað hann vill,
ef sýnir þú vinunum trygð.
Bend þeim af ástúð, og met ekki mest
það mark, sem þú að hefir kept;
ef kælir þú ástvina þelið til þín,
er þættinum helgasta slept.

Gef því þitt hjarta um æfinnar ár,
það alt, sem að bezt þú átt til,
fyltu það eining og fagnaðarsöng,
fyltu það ljósi og yl.
Leitaðu höfðingja hróss, ef þú vilt,
en heiður sá dýrkeyptur er,
ef heimilið fellur með elskunnar auð
og ástvina traustið á þér.

## Landnám Ingólfs Arnarsonar.

Skein á firði, víkur voga,
velli, hlíðar, dali, grund,
hjarni krýnd við himinboga
hlógu fjöll á morgunstund;
elfur, fossar, lækir, lindir
ljúfan sungu vonarbrag,
sólarguðsins sigurmyndir
signdu frægan heilladag.

Fram á Ránar feldi bláum
fögur skeið með hraða rann,
skipuð dýrum drengjum knáum,
djúpt í hjörtum þráin brann
til að leita lands og frama,
lyfta mund og hefja sál;
víkings-eðlið ítur-rama
æðum kynti vonarbál.

Hátt í stafni horfði fríður
hvast og lengi Arnar bur;
sær og himin sigurblíður
sungu: heill þér, Ingólfur.
Björt und kappans brúna tindi

brunnu augun hörð og snör;
þar bjó greind og göfuglyndi,
gifta, hreysti, þor og fjör.

Byrinn þíður blés í voðum,
brosti land í norðurátt;
fleyið sveif á svölum boðum,
sjóvíkinga lið var kátt;
há og fögur fjöllin teygðu
fald við bláan himinstól,
neðra grænar greinar beygðu
gullnu laufin móti sól.

Dýrleg sjón af báru beði
brjóstið fylti von og þrá;
var sem eilíf ást og gleði
efstu jöklum brynni frá;
sætt á vorsins silfurtungu
svanir hófu frelsislag;
lyfti dagsins lífi ungu
landsins heita æðaslag.

Ströndin brosti, breið og fögur
blítt og stilt við öldurót,
faðminn breiddi láð og lögur
landsins kæra föður mót.

Öndvegssúlum hraustri hendi
hetjan varp úr stafni knörs;
allar taugar Ingólfs brendi
eldur vonar, móðs og fjörs.

Mælti snjall: "Hér vil eg vígja
voru blóði fróna grund,
hér skal norrænn dugur drýgja
dáð og þor um langa stund;
vorra niðja hreystin hjúpa
hjarni skautuð Íslands fjöll,
tinda, hlíðar, dali djúpa,
dranga, velli, straumaföll."

Blómleg greri bygð í landi,
brann á tindum vonarsól,
fólknárunga framgjarn andi
friðar naut við dagsins skjól;
Sögugyðjan sigurljósum
sveipti unga Jökuldrós;
fremst úr dal að fjarðarósum
frelsið gylti hverja rós.

---

Blessuð tíð! er bar að sandi
burinn Arnar — föður lands.
Norrænn lifir ennþá andi,
ættarblóð og frægðin hans.

Mundu, þjóð! að heiðra, halda
helga minning, þrótt og dáð
Ingólfs, sem um sæinn kalda
sigldi skeið og bygði láð.

---

## Til sjómanna við Íslendingafljót.

21. marz 1917.

Hér er hlýtt í sal,
þér er drengjaval,
hér er skipað hraustum sjóvíkingum,
snjöll við horna hljóð
hitar æðum blóð,
eins og fyr á fornum kappa þingum.

Sástu Fljótsbygð fríð
fegri sveinalýð?
Ennþá brennur bjartur ættar-neisti.
Unga fóstur fold,
frjóa, hlýja mold,
hjá þér lengi lifi norræn hreysti.

Víkings synir, vösku drengir,
verkin ykkar sýna þrótt,
kaldur vetur þegar þrengir,
þá er fram á hafið sótt;
þar er grafið gull úr hyljum,
gegnum þrautir, storm og ís;
móti fjúki, frosti byljum
fjör og hetjuandinn rís.

Eins þá sumar blómríkt breiðir
bros og ljós á hverjum stað,
regin fríðar renna skeiðir,
ráð og dugur fylgjast að.
Þá er drengjum djúpið bláa
dagsins heill í fylstu mynd,
er sem frægðin forna áa
fági geislum hafsins lind.

Djúpa, víða, fráná flæði,
fróurskra kappa sigurstöð,
nafn þitt hljómar kært í kvæði,
knýtt við margra ára röð.
Frumherjanna býlum barstu
björg þá annað skorti flest,
þeirra fóstur faðmur varstu
fyr og síðar, lengst og bezt.

Gegnum vetrar frost og fannir,
frjófgun vors og sumaryl,
yfir tímans hröðu hrannir
hált við lífsins stunda spil.
Veiðihetjur! sækið sæinn,
saman bindið verk og ráð,
yrkið garðinn, byggið bæinn,
bróðuranda, trygð og dáð.

---

### Til hr. N. Ottenson,

við burtför hans til Íslands.

Far vel á braut úr bræðra sveit,
frá brjóstum stígur ósk vor heit,
að farsæl verði förin.
Haf þakkir fyrir fylgd og dáð,
þinn félagsanda, hug og ráð,
sem léttu lífsins kjörin.

Já, heill sé þeim, er býr sér braut
og bugast lætur ei við þraut,
en horfir jafnan hærra.
Ef sóknin þyngist sortna ský,
in sanna hreysti felst í því,
að stíga sporið stærra.

Far heill um storð og stoltan ál,
með styrkar taugar, hetjusál,
að finna frændur þína,
og berðu kveðju hlýja heim
frá hlýrunum í vesturgeim,
er muna móður sína.

---

## Ávarp til Vestur-Íslendinga.

2. ágúst 1909.

---

Rís, mín þjóð, og stiltu dýpstu strengi,
starfa með samhug í dag,
Sendu austur yfir haf og vengi
anda þíns helgasta brag.
Loftið er heilnæmt og foldin er fögur.
Fram, til að hasla þér völl.
Gnæfandi brosa þér, meyja og mögur,
menningar sólroðin fjöll.

Stefnum hátt, því styrkur vor er runninn
stofninum norræna frá,
minnumst þess, að þar var sigur unninn
þjóðfrægum víkingum hjá:

Snækrýndi hólminn varð höfðingjasetur,
helgaður göfgi og dáð.
Þar er vor saga í lifandi letur,
láni og stríðinu skráð.

---

Þetta land, sem vér oss höfum valið,
vísar á starfssviðið hátt:
Frjórri mold því aldrei hefir alið
íslenzkan huga og mátt.
Hlýðum og gætum að lifandi lögum,
leggjum í eilífan sjóð.
Gjallarhorn tímans með gróandi dögum
göfgar og hækkar sinn óð.

Stefnum rétt, hið sanna vinnur sigur,
sólin á tindana skín.
Meira ljós! Þá hrekkur vanans vigur,
villan og hjátrúin dvín;
dygðir og menningin merki sitt reisa —
máttur hins góða er stór, —
bróðurhönd vinnur í burtu að leysa
bönd þess, er halloka fór.

Réttum hönd, já, styrkjum æ og styðjum
stofninn, sem grein vor er frá;
heilög bönd oss binda traustum viðjum
bræðrum og systrunum hjá.

Þar er vor minning og æskunnar óður,
andi og tunga og þor.
Perlurnar helgu frá munhlýrri móður
merki vor framtíðarspor.

Vak og tak þá tíð, er sólin gyllir,
týhrausta víkinga sjót.
Upp, upp, fram með alt, sem nafn þitt hyllir,
árgeislum daganna mót.
Upp með þinn heiður í orði og verki,
áanna fornhelga móð.
Reistu þér frægðar og framsóknar merki,
frjálsborna, norræna þjóð.

## Vorljóð.

Í dag er alt svo frjálst og frítt
um fold og sæ;
við náttúrunnar hljómfall hlýtt
með helgum blæ.
Í dag er köldu dufti breytt
í dýrlegt skraut,
og sérhvert fræ til ljóssins leitt
á lífsins braut.

Við tilverunnar ljúflings-lag
  með ljós og þor,
sig nærir alt við nýjan dag,
  því nú er vor.
Í hverri átt um loft og láð,
  er líf og fjör,
af björtu vonar brosi fáð
  við betri kjör.

Við dagsins óð fer alt á stað
  með afl og þrá,
að leita hærra ljósi að
  því lága frá;
um allan heiminn stjórnin sterk
  oss stendur skráð,
sem kynnir drottins kraftaverk
  og kærleiks ráð.

Þú, bjarta vorsins blómatíð
  oss bendir hátt,
þitt minsta lauf er lofgjörð blíð
  um lífsins mátt;
í gegnum þína ljóssins leið
  má lesa spor,
með áframhald um æðra skeið
  og eilíft vor.

## 100 ára afmæli Jóns Sigurðssonar

Við hundrað ára sögu sól í heiði
nú saman falla álfur tvær í dag,
að krýna minning látins vinar leiði,
er lyfti sinnar fósturjarðar hag;
frá Heklustóli strengir endurhljóma
þá stund, er gildir höldar sátu þing;
á sagnaspjaldi sigurrúnir ljóma
með sveig um landsins hæsta þjóðmæring.—

Vor lýðmæringur, þakkir þúsundfaldar,
að þú varst landsins skjöldur, sverð og hlíf,
í aftanroðans rúnum heillar aldar
með reginstöfum skírt er alt þitt líf;
þú stóðst á verði, vermdir þjóðar hjarta,
og vaktir sögu ódauðleikans mál;
á hjarn og myrkur brosti frelsið bjarta,
þá beitt úr slíðrum hófstu andans stál.

Já, margur hefir lifað þjóð og landi,
til láns og frama borið sverð og skjöld,
en þitt er hólmans hjálpráð ógleymandi,
í heiðri skína dagsins verka gjöld;
hver Íslands taug er blönduð þínu blóði,
sem bogar gegnum eldsins raun og hjarn,

þar glóir perla sönn í tímans sjóði,
er sýnir niðjum landsins óskabarn.

Af þökk og lotning lýðsins hugur brennur
og lofar daginn, sem oss gaf þig, Jón;
frá álfum tveimur óður saman rennur,
því eitt er blóðið, sama móðurfrón.
Þín helga minning bendi hverju barni
að bera merkið, víkja aldrei hót,
þá gróa blóm er breiða lauf á hjarni
með bros og yl frá landsins hjartarót.

---

## Til J. Jósefssonar.

(Í nafni Winnipeg-Íslendinga.)

Hjálmur þinn, skjöldur og skjómi
skíni sem vor-morgun ljómi,
sigrandi sérhverja þraut.
Ginnhelgi, glóandi neistinn,
göfgi, og norræna hreystin
lifi og blómgist á braut.

Kom heill! með snilli, þrótt og þor,
til þinna bræðra hingað vestur.
Þinn sigurkrans er vegsemd vor,
þú, vinur kær og heiðursgestur;
með Gunnars frækleik, Grettis afl
og geðið djarfa, þolið trausta,
þú hefir leikið lista tafl
og lagt að velli kappa hrausta. —

Vér fögnum þér og þökkum heitt,
sem þjóðar vorrar merki lyftir,
ef högg þér var að vígi greitt,
þú vaska drengi hlífum sviftir;
með víkings anda, hraustur, hreinn,
og huga ljónsins snar og fríður,
þú stóðst á hólmi bjartur, beinn,
og bauðst þeim hönd, er mátti síður.

Þó feðra vorra fold sé snauð,
hún fjör og þor í taugum elur,
og geymir fornan erfða auð,
sem enginn tímans skuggi felur.
Þú hlauzt það dýra gull að gjöf,
sem geislar bernsku, stund og elli,
og breiðir ljós á líf og gröf,
því list og snilli halda velli.

Far heill um lönd og höfin köld,
vor hugumstóri, kæri bróðir,
að fægja þinnar frægðar skjöld
í fránum leik við risaþjóðir.
Já, lif þú bjarta, langa tíð,
þitt letri nafnið gullin saga,
til sæmdar fyrir land og lýð
á listasvæði þinna daga.

---

## Frá Gimli-söfnuði,

til séra Rúnólfs Marteinssonar, 10. sept. 1910.

Þá vinirnir skilja, er máttur og mál
og minni því helgasta bundið;
hið góða fær valdið í geði og sál,
en glysinu burtu er hrundið;
já, þá verður leiðin að ljúfustu þökk
og lifandi þráin í hjörtunum klökk.

Æ, heill sé þér, vinur, sem vísaðir braut
og vaktir hið sanna og bjarta;
þú gafst okkur djörfung í gleði og þraut
með göfugu, vonríku hjarta;
það fræ, er þú sáðir, nú breiðir sín blóm
með brosandi geisla við stundanna hljóm.

Af einbeittum vilja og hjúkrandi hönd
þú hófst okkar merki í stafni,
með takmarkið háa að tengja vor bönd,
í trúar og mannúðar nafni;
það gefur oss dug, þegar dimmir á braut,
í daganna stríði, við söknuð og þraut.

Haf þökk fyrir starfið á liðinni leið,
— það lifir í minningu kærri;
þótt enduð sé návist um ófarið skeið,
í anda þú verður oss nærri.
Far heill brott með svanna; við sælu og stríð
þér sigurinn skíni á komandi tíð.

---

## Til Gunnl. Tr. Jónssonar.

í tilefni af burtför hans til Íslands.

Hreyfum strengi hlýja,
hefjum mál og sinni,
látum vorið vígja
vinar kveðju minni.
Yfir liðnar leiðir,
lýstar bróður vilja,
gleðin geisla breiðir,
gott er svo að skilja.

Brott þú dimmu dreifðir,
drungans léttir stundu,
andans hjör þinn hreyfðir
hreinn og ör í lundu.
Gegndir skyldu glaður
gegnum annir dagsins,
æ var innri maður
ylur bræðra-lagsins.

Þökkum æfi-árin
allar gengnar brautir,
þökkum sæld og sárin,
sigur lífs og þrautir.
Þökkum hönd og hjarta
hverjum dreng á vegi,
sem oss brosið bjarta
bauð á liðnum degi.

Brúum hafið breiða
bræðra taugum hlýjum,
látum ástúð eyða
öllum villuskýjum;
tengjum hönd og tungu,
trygð og vinar anda,
vígjum afli ungu
eining tveggja landa.

Heim til Snælands heiða
hugir vina fylgja:
Hlýtt um hafið breiða
hljómi sérhver bylgja.
Heim í herrans nafni,
helgri studdur mundu;
heill með styrk í stafni
stíg á feðragrundu.

---

## Til Þorsteins Jónssonar

á Hólmi í Argylebygð.

---

Garður bjarti bygðar hjarta,
bæja prýði "Hólminn" fríði!
Svipur þinn á manndóm minnir,
mátt og þor í hverju spori.
Um þig líðast lán og friður,
landið slétta, kosta þétta!
Kveður hátt í öllum áttum
auðnubragur sumardaga.

---

Sit heill! þú höldur gildi
með höfðings lund og dáð;
á "Hólmi" lífs í hildi
þú hefir marki náð:
Að vera sveitar sómi,
það sýna verkin traust.
Nú signir sigurljómi
þitt sæla æfihaust.

Á "Fróni" varstu fæddur,
þar fékstu dýran arf,
svo helgri hreysti gæddur
að heyja dagsins starf;
og vel þú varðir pundi,
það vitnar farin leið.
Þá hret og stormur stundi,
þú stýrðir traustri skeið.

Hve ljúft er nú að líta
á löngu gengin spor,
þá fold með faldinn hvíta
hið fagra breiddi vor.
Með hetjusvipinn hreina
og hug, í þraut ef skarst:
Þar yfir ýtra sveina
þú ægishjálminn barst.

Að fornu feðra ráði
þig fýsti yfir sæ.
Hér lagðir þú að láði
og lítinn reistir bæ;
en búið blómgast hefur,
nú brosir auðnu sól;
hin væna bygð þig vefur
í vinarfaðm og skjól.

Með Grettis taugar traustar
og trygð og hygni Njáls,
þú lagðir hendur hraustar
að hverju verki frjáls.
Með dug og hug bjó dygðin
við dagsins hret og skin;
þar átti Argyle-bygðin
frá instu rótum vin.

Hinn litli bær er breyttur
í býli stórt og frítt;
nú skín þér völlur skreyttur
með skjólið vonar hlýtt.
Haf þökk með svinnum svanna,
er signdi geislum braut;
í flokki frumherjanna
er fögur unnin þraut.

Haf þökk frá þjóðar hjarta
á þinni heimastöð,
með frægðar fánann bjarta
í fremstu bænda röð.
Sit heill! þú höldur gildi,
við haustsins sigurglóð,
með skæra rún á skildi,
er skín við tímans flóð.

---

## Afdýr sléttubönd.

Hrannir skína, lifir ljós,
ljómar allur heimur,
fannir dvína, yfir ós
ómar snjallur hreimur.

Nýjum klæðum grundin grær,
gleðin hylur voga,
Hlýjum kvæðum mundin mær
meðan stillir boga.

Svifin bandi fanna frá
foldar klæðin rísa,
hrifinn andi manna má
moldar gæðin prísa.

Kífsins þrautir falla frá,
fjörug kvæðin hljóma,
lífsins þrautir allar á
örugg gæðin ljóma.

Æða blóðið nærir nýtt
niður tærra strauma.
Kvæða hljóðið færir frítt
friður værra drauma.

---

## Vetrarkvöld.

Kvöldið hljótt í köldum anda
klæðir húmi sæ og láð,
vetrar lögin stíluð standa,
stjórnarvaldi tímans háð.
Undir fölvum fanna slæðum
foldin hvílir snauð og bleik,
meðan stjarna her frá hæðum
hlær við frostsins risaleik.

Vetrarkvöld með skrautið skæra,
skautið klakaperlum fáð,
þú átt marga munarkæra
mynd á gljáa hjarnið skráð;

mjallarhafsins báran bjarta
brosir stirndum himni mót,
alt eins nærri alvalds hjarta
eins og blóm á vorsins rót.

Svella þinna höf þó hylji
hjartkær blóm, er vorið ól,
gegnum þína grimmu bylji
geislar dagsins vonarsól.
Þú átt nægan eld í æðum,
oss þó stundum finnist kalt,
undan þínum klaka klæðum
kraftur lífsins vekur alt.

---

## Áramót.

Þú, tímans hjól með húm og sól
og harms og gleðidraum,
með stunda slög, hin sterku lög,
og strengja regin glaum,
með dag og kvöld og ár og öld
og umbreytinga lit,
með auð og völd og kjörin köld
og kyrð og stormsins þyt.

Með geisla hjúp í hafsins djúp
nú hnígur sunna skær,
hið gamla ár með sæld og sár
á síðsta strenginn slær;
það talar hátt í hverri átt, —
þú heimur geym og lær
hvert blóm á storð, hvert bróður orð,
er bar þér tímans sær.

Hvert liðið ár er himinn hár
með helgan lífsins óð;
hvert stígið spor er styrkur vor,
þar streymir tímans flóð.
Í reynslu manns er menning lands,
sem miðar fram á leið,
því lífið alt, þó virðist valt,
er vorsins þroska skeið.

Þú fleyga hjól, nú sígur sól
í svalan tíða straum.
Ó! far vel, ár, með sorg og sár
og sæld og unaðs draum.
Nú ómi klökk vor insta þökk
við ársins hinzta slag,
því alda ný oss hljómar hlý
og húmið snýst í dag.

Sjá, hjólið snýst, alt land er lýst
og loft og hrannar slóð,
og röðull skær við heimi hlær
með helgri vonar glóð.
Á morgun stund skal lyfta lund
og liðinni gleyma þraut,
og nema lag við nýjan hag
á nýrri tímans braut.

Hvert ár er kall, það öldufall,
sem ómar þrá og hvöt,
að stíga spor með styrk og þor
á stærri sjónarflöt.
Já, lífsins tafl er eilíft afl
í anda sérhvers manns
að hefja leit á hærri reit
í heimi sannleikans.

Kom, nýja tíð, að lýsa lýð
á leið með sannleiks orð,
með andans blóm og hlýrri hljóm
á heimsins sögu storð,
með kærleiks hönd, þau helgu bönd,
er hefja stundar kjör.
Kom, ár, með frið og ljóssins lið,
í lífsins sigurför.

## Vorkoma.

Heilög rödd frá himins sölum
hljómar, köldum jarðar dölum,
nú er vor um ver og lönd.
Hátt og lágt er fjör og friður,
faðmar, vekur, lyftir, styður,
náttúrunnar náðarhönd.

Hljómar óma, geislar glitra,
gullnir ljóssins bogar titra
yfir fold og svölum sæ;
allir lífsins brunnar brosa,
böndin köldu sundur losa
sólarljóð í sumarblæ.

Blikar jörð, en blómin dafna,
bjarkagreinar skrauti safna,
alt er frjóvgun fram á leið,
föstu ljóssins letri grafið
lögmál drottins speki vafið —
ómælandi eilíft skeið.

Ó, þú heimsins árstíð bjarta,
alt sem vefur þér að hjarta,
ástin lýsir öll þín spor.

Djúpa lindin lífsins vona,
líkn og djörfung jarðar sona,
frjálsa, blíða, fagra vor.

## Sumarnótt.

Sumarnótt við sundin fríðu,
sæl og blíð er kyrðin þín.
Faðmað lífsins veldi víðu
vorsins töfraríki skín;
stjörnur ljóma himins höllu,
hljótt er alt um fold og sæ;
tign og máttur yfir öllu
andar helgum vonar blæ.

Gnæfir björk hjá bláu flæði,
búin greinum fríð og há,
blítt í vorsins nætur-næði
njóta værðar blómin smá.
Sumarnótt, með sæla friðinn
svala dögg á lífið valt,
þegar dagsins þraut er liðin,
þinnar verndar nýtur alt.

Heilög kyrð, við barmi þinn blíðan
brosir skjól hins þreytta manns,
yfir land og ægi víðan
andar mildi gjafarans.
Sumarnótt, með skrautið skæra,
skýldu hverri veikri rós;
við þitt daggar djúpið tæra
dreymir hjartað morgun ljós.

---

## Haust.

---

Skuggarnir lengjast við lækkandi sól,
lífið til værðar sig hjúfrar í skjól;
húmið og feigðin með faðmandi ró
felur oss skrautið, er sumarið bjó.
Náttúran sofnar við helkaldan hjúp,
himininn vakir, því spekin er djúp.

---

Skýin reika bana-blá,
bliknar veika lífið;
laufin eikum falla frá
foldar bleika vangann á.

Unaðs hljómar flýja frá
feigðar dómi köldum;
grána blóma beðin smá,
böls við rómu hníga strá.

Þrungin kvíða þruma hljóð
þangs á víðum brunni,
hörðu stríði hóta þjóð
haustsins tíða kuldaljóð.

---

## Sunnudagur í júní.

Herrans helgi dagur,
hátign þín er stór,
alheims faðmur fagur,
fold og loft og sjór,
bros á hverju blómi
blika móti sól;
drottins dýrðar ljómi
dauðans krýnir ból.

Mannsins hugar heima
hrífur von og þrá,
allar æðar streyma

einu hjarta frá.
Helga, háa djúpa
haf með lífsins óð,
eilíf öfl þig hjúpa,
alvalds tignar glóð.

Blóm á greinum glitra,
glöð við sólar bál,
töfra raddir titra
tilverunnar mál.
Himinn, jörð og hafið
helgan stilla brag;
alt er vegsemd vafið
vorsins sælu dag.

Sjá þú, maður, merkin,
máttin, speki, ráð;
sannleiks sigurverkin
signa höf og láð.
Alt er letrað lögum,
ljósi, von og ást;
heldur lífsins högum
hönd, sem aldrei brást.

Frelsi, ljós og friður
faðmar skreytta jörð;
er sem ómi kliður

yfir tímans fjörð.
Speki lífsins laga
ljóss frá veldi skín.
Dýrðin sumar daga
djúp er fegurð þín.

## Bernskan og vorið.

Vort æskulíf er eins og vorið heiða,
sem engin él né kaldir stormar þjá,
en dögg og geislar blóm á veginn breiða,
svo brosir alt af fjöri, von og þrá.
Í samróm skærar fegins raddir falla,
hvert fræ úr moldu rís við sólar bál,
þá horfir bernskan yfir vegi alla
með ódauðleikans kraft í hreinni sál.

En æskan fölnar fljótt sem vorið blíða,
og frost og élin skyggja tímans braut,
en það sem oss þá styrkir bezt að stríða
og stafar ljósum hverja sorg og þraut,
er vonin björt, sem blómatíðin færði,
með blíða huggun, andans frið og ró.
Sú helga rós var afl, sem endurnærði,
á æfileið þá köldu húmi sló.

Hver vorsins rós mót sól er döggin svalar,
er saklaus, hrein og ljúf sem æskan blíð.
Hver lækur, sem að líður fram og hjalar,
er ljúflings mál frá vorri bernsku tíð.
Hver blær sem flýgur frjáls of skreytta haga
á fögrum morgni, þegar blómið grær,
er bergmál okkar björtu unaðsdaga,
sem bæn og tár ei afturkallað fær.

Þá haustið kalda hinztu skugga breiðir
og heimsins skeið er stigið fram að gröf,
og síðsta slagið svefn á augun leiðir
og sálin mænir yfir tímans höf.
Hvert vorsins blóm frá blíðum æskudögum
þá brosir nýtt, og gefur helgan frið,
og bendir okkur heim að sælli högum,
þar himins dýrð og eilífð tekur við.

## Nýárskveðja.

Til systrafélagsins "Jón Sigurðsson", 1916.

Göfgu systur, frónsku fljóð,
fram til sigurs vorri þjóð,
vermdar blíðum bróðurhug,
brýndar fjöri, von og dug.
Árið nýtt,
bjart og blítt,
bendi mátt í rétta átt.
Upp með hlýjan árdags söng,
undir brezkri veldis stöng.

Aldrei háði heimur flár
hildarleik með fleiri tár.
Stutt er ennþá stigið spor,
stríð og blóð er menning vor.
Heyrið, fljóð!
helgan óð,
hefjið merkið — stórt er verk —;
til að græða gömul sár
gott og farsælt verði ár.

Meðan svinnir synir lands
sýna þrótt og gildi manns,
leggja fram sitt fjör og blóð,

frjáls svo megi lifa þjóð,
börn og fljóð
heima hljóð
harma kæra vini fjær,
þá er ykkar hjarta hlýtt,
hönd, sem lífsins ís fær þítt.

Heill þér, "Jón" vor "Sigurðsson",
svásu brúðir, landsins von,
látið nafn hins mikla manns
merki yðar flétta krans.
Norræn sól
áður ól
ást og dygðir, þor og trygð.
Sýnið okkar unga heim
endurskin af ljóma þeim.

Ár, með dygð og auðnu kjör;
ár með krafta, þor og fjör;
ár, með ljós og andans ment;
ár, sem rétta leið fær bent.
Glaða stund,
góðu sprund!
Gullinn arfur verði starf.
Íslenzkt táp í hug og hönd
helgi ykkar félagsbönd.

## Sumarkoma.

Vér fögnum þér, sumar með sigurljóð
og suðrænan, himneskan blæ,
sem breiðir líknandi ljóssins glóð
um löndin og víðan sæ.
Í hörpunnar titrandi tónum
er töfrandi kraftur og fjör,
og bláloftið blikar við sjónum,
en blíðvindar útrýma snjónum,
með frelsið og líf í för.

Nú rísa úr duftinu dýrleg blóm,
þar dásemd og fegurðin skín,
en fuglar kveða með frelsis hljóm
hin fjölbreyttu kvæðin sín.
Af fögnuði hauður og hafið
og himininn stilla sinn brag.
Já, alt er í vorljóma vafið,
af vísdómsins sólrúnum grafið
sér lyftir hvert lauf í dag.

## Í nafni Gamalmennaheimilisins á Gimli

Á Gimli hefir guð oss bústað valið,
þar göfgi sönn og kærleiksylur skín,
við fáum þar í aftanbjarma alið
það afl, sem lyftir, þegar heimur dvín.
Í hjartans ró við segjum okkar sögur,
og sjónin hvarflar yfir farna braut;
frá bernskustundum ljómar tímans lögur
er lífsins knörinn bar í sæld og þraut.

Hve sælt er, þegar húma æfi hrannir,
að hafa skjól við kvöldsins frið og ró.
Þá signa daginn unnið stríð og annir,
með atvik liðin, sem oss tíðin bjó.
Hvert sorgartár og unaðsbros þá yla
í aftangeislum minninganna haf,
með boðskap þann við leiðarlok að skila
því lífsins pundi, sem að drottinn gaf.

Ef trú og vonin vígja mál og sinni,
þá verður haustið aldrei dimt né kalt,
því tími vor er tengdur eilífðinni
og týnist ei, þó hjólið sýnist valt.
Þá húmar jörð og holdsins kraftar dofna,

en himinn til vor kallar blítt og rótt,
oss verður ljúft í ljósi guðs að sofna,
að liðnum degi bjóða góða nótt.

---

## Til W. H. Paulson.

Flutt í kveðjusamsæti 13. okt. 1910.

Í kvöld líður hugur að horfinni tíð,
með hljóminn af söknuði og gleði,
og samblönduð atvik um sigur og stríð
og sólskin og myrkur í geði;
það helgar vort minni við munhlýjan fund
og mýkir og vermir á skilnaðarstund.

Hver vinur, sem ber með oss byrði á leið
í byltingum svífandi daga,
og vinnur af mætti um skyldunnar skeið
að skreyta vorn mannfélags haga;
hann leggur í sjóð þann, sem grandar ei gröf,
en geymist og skín yfir stundanna höf.

Og nú er sá vinur að víkja á braut,
er veitti það lið sem hann mátti
af góðvinar hjarta, í gleði og þraut,

og gaf oss það bezt sem hann átti,
og hlífði sér aldrei við skin eða skúr,
á skyldunnar stríðsvelli djarfur og trúr.

Með fjörið og ylinn í sinni og sál
þú sólgeislum stráðir á veginn,
á góðvina fundum við gleðinnar skál
var göfgasti strengurinn sleginn.
Við ljósið og gleði skín himinsins haf
og hyllir það bezta, sem lífið oss gaf.

Vér þökkum hvert atvik og ánægjustund
á umliðnum sambúðar dögum,
hvert bróðurlegt hugtak og broshýran fund
með blómin í tímanna högum.
Þótt smá séu launin, er hjarta vort hlýtt.
Þér hamingjan fylgi um starfsviðið nýtt.

---

## Til hr. H. Anderson.

Hver skilnaðs-stund á strengi, sem að hljóma
um stríð og sigur liðnum dögum frá;
í þökk og minning ótal raddir óma
um unað lífsins, söknuð, von og þrá.

Og þá er bezt að gera stundir glaðar,
en gleyma því, er bjó oss sorg og neyð.
Á meðan streyma hrannir tímans hraðar,
vér horfum fram, en sjáum skamt á leið.

En það er eitt, sem aldrei tapar gildi,
og er vor sigur gegnum lífsins stríð:
Hver vinur, sem að lýsa leið oss vildi
og létta spor á hverri þrautatíð.
Og því er hann, sem hefir fylgt oss lengi,
með heillaóskum kvaddur þessa stund.
En von og kvíði knýja instu strengi,
því kraftur hulinn skapar næsta fund.

Til Íslands heim í anda vér þér fylgjum,
því enn er minning kær um feðra jörð;
og hvar sem fley þitt berst á svölum bylgjum,
við biðjum: gæfan um þig haldi vörð.
Og flyt vorn óð til Fróns úr högum nýjum,
því fjarlægð engin kælir víkings blóð.
Að brúa sundið bræðra taugum hlýjum,
er beggja landa sigur vorri þjóð.

## Sigtryggur Jónasson.

Á heiðum morgni leizt þú land,
í lofti dísir sungu,
við öldusollið eyja band
með afli strauma þungu.
Þú heyrðir kall af huldri braut:
"Sjá, hingað sporin liggja,
með norrænt táp og þol í þraut
skal þessa ströndu byggja."

Af sterkum vilja hófst þú hönd
með hug á nýjum brautum,
er færði líf á frjálsa strönd
í frumbýlinga þrautum.
Við fjögra tuga ára óð
með umbreytinga föllin,
var mark að lyfta þinni þjóð
og þennan prýða völlinn.

En nú er lága hreysið höll
og högum breytt til þrifa,
og greinar skreyta gróinn völl,
þar glitra blóm sem lifa.
Já, víst er sælt þá húmar haust,

að horfa' á leið til baka,
því frumherjanna tökin traust
í trúrri minning vaka.

Í harðri sókn með huga ljóns
þú hvattir ávalt sporið.
Úr hjartarótum feðra fróns
var festa, trygð og þorið.
Þú studdir oss með styrk og ráð
í stríði liðna daga;
með þökk og virðing verður skráð
á vesturgrund þín saga.

Nú horfir knör að hinztu strönd
í hægu dagsins leiði,
við sjónum numin ljóma lönd,
sem lágu fyr í eyði;
en greinar fríðar breiða blöð,
og blítt í runnum syngur.
Þitt haust á kærri heima stöð
sé hlýtt, vor þjóðmæringur.

---

## Gamla árið 1918.

Söguríka, sigurfræga ár,
sól þín björt að tímans djúpi líður;
liðnar brautir, söknuð, tár og sár
sveipar roði friðarskær og blíður.
Gervall heimur flytur þakkarfórn,
fyltur von að rísi hærri dagur;
eilíft birtir alvalds ráð og stjórn
aftan þinn, svo dýrlegur og fagur.

Yfir fullra fjögra ára skeið
fár og dauði svall á hildar túnum;
aldrei sagan setti mark á leið,
sem var dregið slíkum megin rúnum.
Gifturíka, gamla blessað ár,
guð þig krýndi helgum friðarboga;
aftur frelsis fáni skær og hár
fagur blaktir yfir lönd og voga.

Verði ljós um lönd og heimsins höf,
helgað minning, frið og kærleiks eldi;
liðinn tími — guðs vors náðargjöf —
gullin reynsla hverju þjóðarveldi.
Gamla ár! vér krjúpum við þitt kvöld,

kraft þess góða léztu velli halda;
sigur þinn við skæran sögu skjöld
skín í helgri þökk um brautir alda.

---

## Vor.

Nú syngur vor um sæ og láð
hinn sigur-blíða óð,
sem færir öllu dug og dáð
og dýrð og gleði, ást og náð;
hvert fys um heimsins fölva slóð
nú fágast lífsins glóð.

Með þúsund radda ástar óð
hið unaðs-blíða vor
nú opnar himins helga sjóð
til heilla fyrir lönd og þjóð,
og signir gleði sérhvert spor
með sigur, líf og þor.

Hvert visið lauf, er fyr sig fól
í foldu, bleikt og kalt,
er endurnært með nýrri sól

frá náttúrunnar veldisstól;
nú stillir lífsins strengi snjalt
hið stóra, smáa — alt.

Já, alt er hrifið helgri þrá,
að hefja flug í dag;
nú skríður maðkur fylgsni frá,
hann fýsir dagsins ljós að sjá;
hið heita vorsins hjartaslag
er heimsins sigurlag.

Ó, heill þér, vor, með ljóssins lind,
sem laugar kaldan heim,
þú sanna lífsins sigurmynd,
er signir hverja laut og tind,
þín tign er þrungin töfra-hreim
um tilverunnar geim.

Hvert vetrarstríð með sorg og sár
oss sýnir ljóssins skaut,
sem vorsins dýrðar himinn hár,
er hlær við blóm og daggar tár;
þar eignumst vér hið æðsta skraut
á andans þroskabraut.

Ó, vak þú, maður, hugsa hátt
og hlýð á tímans raust;

já, legg nú fram það alt þú átt:
þinn anda, hönd og viljamátt,
og bú þér skjólið trygt og traust,
unz til þín kallar haust.

---

## Skammdegið.

Á alstirndan himininn heiðan
eg horfi um skammdegis kvöld,
sú fegurð er faðmandi gleði,
en fölleit er jörðin og köld.

Og stjörnurnar leiftrandi ljóma
svo langt sem að geimurinn nær,
hið lægra um löndin og höfin
er ljósvefur tindrandi skær.

Þá vorhiminn brosir oss bjartur,
og blómskreytt er jörðin og fríð;
oss sýnist ei efra svo indælt
sem einmitt á skammdegis tíð.

Því meir sem að myrkvar á jörðu,
er máttugra ljósið af hæð,
því harðar sem hretviðrin næða,
er heitari kærleikans æð.

Og það var á skammdegis skeiði
að skaparinn gaf oss þá sól,
sem bendir á brosandi eilífð
og boðar oss gleðileg jól.

---

### Leiðin og lífið.

Eg gekk eftir götunni hljóður,
við glampandi ljósanna skraut,
þá komstu með sólbjarta svipinn,
að svæfa mér raunir og þraut.

Þú réttir mér hönd þína hlýja,
eg horfði með undrun á þig;
sem blikandi blómrós á vori
þú brostir og heillaðir mig.

Við gengum og sátum þar saman,
með sólskin í hjartnanna reit,
hve stund sú var hugðnæm og heilög,
það himininn eingöngu veit.

Og lengi við sátum þar saman
við sólríka gleðinnar skál,
með óðinn um ástir og sælu
og æfinnar vonir og tál.

Við skildum með kærleik og kossi;
eg kann ekki söguna meir.
Já, þannig er leiðin og lífið,
sem ljósið er fæðist og deyr.

---

## Fantine.

(Efnið tekið úr skáldsögu eftir Victor Hugo.)

---

Sem fjólan á vordegi, fögur og rjóð.
var "Fantine", þar gekk hún um torg,
í sakleysi æskunnar, glaðlynd og góð,
við glaumin í Parísarborg.
Þar hafði hún alist frá ungbarnsins tíð
og aldrei séð foreldra ljós.
En vaxin á grjóti, við storma og stríð,
er stundum hin fegursta rós.

Svo indæl og fögur við árdegis skin
á æfina vonglöð hún leit.
Það skeði, sem oftar, hún eignaðist vin,

því æskan er fljótráð og heit.
Hún elskaði mikið og mörg var sú stund,
sem með honum gekk hún á leið,
og taldi hvern einasta fagnaðarfund,
er faðmaði líðandi skeið.

En unnustinn hennar, af höfðingja stétt,
var hermaður, tiginn og knár.
Hún las það og skildi, hve lágt hún var sett,
þau lög voru bitur og sár.
Og fólkið, það vissi hún fædd var í sveit,
af fátækri kotunga ætt;
og fegurð og ást hennar, einlæg og heit,
þann annmarka gat ekki bætt.

En sólbrosi vorsins með skínandi skraut
var skjótlega snúið í hret;
og hann, sem hún unni, var horfinn á braut,
en hún stóð þar eftir og grét.
Hver einasti geisli af liðinni leið
varð lágnætti, biturt og þungt,
og frostið og húmið nú faldi það skeið,
er fyr var svo ljósríkt og ungt.

Í hrörlegu inni, við svíðandi sorg,
með sárin og fölleita kinn,
nú hræddist hún glysið og hljóminn um torg,

en harmaði ástvininn sinn;
og bláleitu augun, sem blikuðu fyr
af bernskunnar fjöri og þrá,
nú störðu svo döpur og dauf leg og kyr
í dimmuna sollinum frá.

Já, nú var hún einmana, þjökuð og þreytt,
við þrengjandi örlögin hörð,
og meybarnið "Cosett" var yndi það eitt,
sem átti' 'ún á þessari jörð.
Á burtu var faðirinn, fláráður sveinn,
er fyr hafði' 'ún elskað og treyst,
þá gleðinnar röðull skein heiður og hreinn
í húsið, af vonunum reist.

Svo kvaddi hún Parísar ginnandi glaum
með glysið, og fegurð og prjál,
með endaðar vonir og vorstunda draum
um vini, sem brugguðu tál:
Með "Cosett" í fanginu fór hún af stað
í fjarlæga, ókunna sveit;
að leita' henni vina og uppeldi að
var einasta löngunin heit.

Og hjónum til fósturs, í fjarlægri bygð,
svo fengin var dóttirin smá,
og meðlagið goldið, því móðurleg dygð

er Mammoni gerskilin frá.
Þar skildi' hún við "Cosett" með svíðandi sár
og saknaðar blæðandi und,
en heimurinn sá ei þau himnesku tár,
er helguðu þvílíka stund.

Til atvinnu réðst hún á ókunnum stað
og ötult og trúlega vann;
var hugljúf við alla, en hulið var það,
að hjartað af söknuði brann.
En dagarnir liðu, svo endaði ár
og erfiðislaunin hún galt
í hækkandi kröfur — sem kostuðu tár —
með "Cosett", sem var henni alt.

Einn dag sat hún þögul og kramin af kvöl,
af "Cosett" hún frétt hafði mætt:
að hún væri orðin svo óhraust og föl,
það einn gæti læknirinn bætt.
Og hækkandi gjaldið var heimtað í stað,
en hvar átti að taka þann sjóð?
Og harmurinn bitri að hugsa um það,
sem helör í brjóstinu stóð.

En mjúka og lokkfríða hárið um háls
í hrönnum sig liðaði þétt,
því enn höfðu ei fangbrögðin fólsku og táls

á fegurð þá litbrigði sett;
við útrunnið tuttugu áranna skeið,
með atvikin bitur og köld,
af söknuði hjartans hún leit yfir leið,
er lífsmorgni breytti í kvöld.

Hví skyldi hún sitja þar sorgbitin, ein,
með söknuði, döpur og hljóð?
Því margan á torginu séð hafði' hún svein,
er sendi' henni vinblíðan óð.
En hjartað í minninga heiminum bjó,
þar hafði hún fest sína trygð,
og mikið var stríðið, en máttugri þó
var móðurleg elska og dygð.

Svo gengur hún einmana úti um nótt,
með angist og brennandi þrá,
í vonleysis húmi, með hnignandi þrótt,
og hvergi var liðsemd að fá;
í þrautum að prangara búð hana bar,
— um barnið sitt hugsaði hún eitt —
og lokkunum fögru hún fórnaði þar,
svo fengi hún meðlagið greitt.

Af angist og þrautum hver æð var sem brend
er ógnaði fjöri og þrótt;
og aldrei var heilagri hugvekja kend

en hún gaf á þessari nótt.
Þar einmana gekk hún við andbyrið kalt
að inninu döpur og þreytt,
en barninu hafði hún úthlutað alt,
sem ástin og trygðin gat veitt.

En nú var hún þrotin að þoli og dug,
af þrautunum sturlaðist geð,
og lögregla bæjarins hafði í hug
að hýsa' hana föngunum með.
En himininn sendi í hörmungum þeim
til hjálpar einn göfugan mann,
sem bar hana veika til hjúkrunar heim
í hlýjan og vinblíðan rann.

En þrátt fyrir kærleika, ástúð og yl,
er auðsýndu vinir af dygð,
var sterkari dauðinn við stundanna spil,
ei stoðuðu bænir né hrygð.
Og "Fantine" sem margt hafði kannað svo kalt
og kvalist við þrautir og sár,
þar endaði skeiðið, sem var henni valt,
með vonbrigði, raunir og tár.

Með andvarp til drottins frá dýrlegri sál
við dauðanum brosti hún rótt,
og síðasta hugtakið, hljómfall og mál

hún helgaði "Cosett" þá nótt.
Frá máttugri kærleikans ylgeisla æð
á andlitið kvöldroða sló,
og friðarins engill af himinsins hæð
gaf hjartanu eilífa ró.

---

## Harpan mín.

Eg hreyfi streng; þótt harpan mín sé veik,
er hún það bezta, sem mér drottinn léði;
á göngu heims við ljóða minna leik
er lífið helgað friði, von og gleði.

Í glaumi lífs þá gleðst eg vinum hjá
og gleymi dagsins striti, sorg og þrautum,
þá ómar hún mér huldum geimi frá
um herrans ljós og náð á tímans brautum.

Og þegar trega-tárin væta kinn,
á tímans hafi dynur sorga bylur,
þá kemur hún sem engill til mín inn
og opnar bók, sem hjartað les og skilur.

Eg stilli hörpu, hræðist engan dóm,
þótt hróðmæringar snjallir kveði braginn;

mér nægir, ef eg næ úr strengjum hljóm,
sem nærir yl og fágar ljósum daginn.

Því hvað er skáldsins skylda hæst á jörð?
Að skreyta geislum dimma tímans voga,
og mýkja þjóðlífs meinin köld og hörð
í mannelskunnar skæra vafurloga.

Eitt lítið stef, er linar böl og sár,
er lífsins speki geymd í þökk og minning;
að þerra geislum trega sollin tár
í tímans stríði, skapar sigurvinning.

Eg lærði fátt um farna æfistund,
mín forlög voru bundin dagsins kröfum;
og þannig oft er grafið gefið pund,
sem gæti orðið ljós á tímans höfum.

En það er eitt, sem met eg ætíð mest,
í minni fátækt, gefna lífsins daga;
að hljóma það, sem helgast er og bezt,
frá hjartans reit, á strengi minna braga.

Og þegar syrtir síðstu heimsins nótt,
til svefns og friðar dagsins klukkur hringja,
þá legg eg niður hörpu mína hljótt
í helgri þökk — að mér var leyft að syngja.

## Haust.

Eg heyri kalda haustsins rödd.
Fölna við dimman dóm
deyjandi sumarblóm.

Hvert sólarljóð frá sumartíð,
áður sem unað bjó,
endar í þögn og ró.

Vér syrgjum liðinn sumaróð
og broshýr blóm á grein
blítt þegar sólin skein.

En látum oss ei hryggja haust,
því eftir örfá spor
er aftur komið vor.

Hver vetrarþraut oss verður létt,
sigur, með sól og þor,
ef sálin geymir vor.

Þó sterkt sé, haust, þitt feigðar fang,
hærra er vorsins vald,
vetrarins endurgjald.

Hvert fölnað blóm við brjóst þitt kalt
flytur úr feigð og þraut
frækorn á lífsins braut.

Þó byrgt þú hafir blómin mín,
eg beygi hjartað hljótt
við húm þitt kyrt og rótt.

Ó, haust! eg lýt með lotning þér,
friðsæll er faðmur þinn,
ferðlúnum velkominn.

---

## Heimalandið.

Vér hugsum til þín, Ísland í svölum norðursæ,
þú sögu vorrar heimkynni, faldað gljáum snæ,
með sól um vorsins nætur, og norðurljósin skær,
og niðinn hárra fossa, og vötnin silfur-tær.
Vor saga, sál og mál
er hnýtt með helgum taugum
við hjarnið þitt og bál.

Vér hugsum til þín, Ísland; já, þar er þjóðin vor,
og þar má rekja feðranna stór og göfug spor;
vér elskum forna hreysti og dygðir, þor og dáð

og drengilega breytni með frægð og snilli ráð.
Vor saga, sál og mál
er hnýtt með helgum taugum
við hjarnið þitt og bál.

Þér heill, vort kæra landið! Þitt allra alda skeið
sé ætíð bjart og fagurt sem norðurljósin heið;
og gef þú hverju barni við brjósta þinna yl
þau blóm er skreyta þjóðlífið hinztu stundar til.
Vor saga, sál og mál
er hnýtt með helgum taugum
við hjarnið þitt og bál.

---

## Frostnótt.

Nú glampar á hjarnið í helkulda blæ
frá heiðskíru stjarnanna veldi,
en lífið í böndum um löndin og sæ
er lamað und vetrarins feldi.

Ó, frostnótt! mér ógnar þín ísköldu bönd,
sem eyða og nýsta og deyða,
en dýrlega málar þín harðtæka hönd
á hjarnvefinn gljáa og breiða.

Þótt grimm sértu, frostnótt! og bitur á braut,
með beiskum og skelfandi hljómum,
þinn hrímstirndi vefur er vegsamlegt skraut,
sem vornætur döggin á blómum.

Þó hörð sértu, frostnótt! með klökuga kinn
og kvíðann og þungstígið sporið,
er bending við helkalda hersönginn þinn:
að horfa og trúa á vorið.

---

## Mikley.

Þú, frjálsa eyja, föðmuð bláum legi,
hvar frónskir drengir hafa numið lönd.
Þitt bros er skært á blíðum sumardegi,
er báran syngur létt við þína strönd;
við augum blikar útsýn heið og fögur
og alt í kring er hafið geislum skreytt.
Þú geymir margra mætra drengja sögur
og merki þau, sem tíminn fær ei breytt.

Hér fundu gildir frumbyggjendur vígi
með fornan þrótt, er veitti móður storð,
þeir hræddust ei, þó hrönn frá djúpi stigi,

að halda fram á mið, var þeirra orð.
Nú hvílast þeir, en niðjar erfðu auðinn,
hvar íslenzkt þrek og viljakraftur bjó;
þá fögru minning felur ekki dauðinn,
þó falli öldur geyst um tímans sjó.

Lát bjarkir þínar greinum skrýddar gnæfa
við geislabál af vorsins morgun-sól,
þig signi frelsi, friður, ljós og gæfa,
með forman dug, sem víkings blóðið ól,
og gleymdu aldrei þeim, sem veginn þreyttu,
með þéttri lund að hinztu dagsins tíð,
og eyðiströnd í blómareiti breyttu,
er brosa nú við glæstri ránar-hlíð.

Þú, fagra eyja, lauguð svölum legi,
hvert lauf þitt beri hundraðfaldan arð,
með viljans kraft á vorsins þroska degi
að vinna rétt, og fylla sérhvert skarð.
En vertu hrein í verki, sögn og ljóði,
með von og trú á drottins máttarhönd,
og geymdu norrænt gull í hjartasjóði,
er geislum krýni þína fríðu strönd.

## Jólin.

Statt upp og gakk! Nú ljóma lífsins jól,
og ljósið brýtur dauðans hlekki kalda.
Statt upp og gakk! Þig signir eilíf sól
með sigurkransinn hundrað þúsund falda.

Statt upp og gakk! og sjá hvar brosir barn,
svo bjart, að hverfa lífsins skuggamyndir;
já, myrkrið flýr og heimsins bráðnar hjarn
við helgan eld, sem ljóssins faðir kyndir.

Statt upp og gakk! Nú faðmar friður jörð,
því fædd er lífsins mikla sigurhetja,
á ljóssins braut að leiða vilta hjörð
og lyfta, benda, gleðja, styrkja, hvetja.

Statt upp og gakk! og hlýð á himins mál,
svo hreint og djúpt með eilíft sannleiksgildi,
er styrk og djörfung sendir hverri sál,
að sjá og treysta drottins náð og mildi.

Statt upp og gakk! með sannleikssverð í hönd,
að sigra villu — það er lífsins skóli —,
og fylgdu þeim, sem lýsti heimsins lönd
og lagði veg að himins dýrðar stóli.

Statt upp og gakk! með vinarbros á vör,
að verma sérhvert blóm á lífsins hjarni,
og vígðu kærleik andans helga hjör,
að hefja mark og lyfta þreyttu barni.

Statt upp og gakk! og réttu hlýja hönd
þeim halta, blinda, volaða og snauða,
með kærleiks-yl á kaldri tímans strönd,
er krýnir sigurljósum gröf og dauða.

Statt upp og gakk! og lærðu drottins lög.
— Nú lýsir öllum heimi friðarsólin, —
Og hlýð á eilíf himinstrengja slög
frá honum, sem að gaf oss blessuð jólin.

---

## Vetur.

Happa-lítil-leið á fold
lúnu slítur geði,
Kuldinn bítur húð og hold,
hvergi nýtur gleði.

Vetur svalan syngur óð,
sofnar hjal á vörum,
klaka falin liggur lóð
lífs í dvala kjörum.

Fyrri hló oss fjölgresið,
fjör og ró í haga;
bezt er þó að þrauka við
þessa óláns daga.

Meðan efinn þvingar þor,
það er skref til bóta,
oss er gefin von um vor;
vetrar stefin þrjóta.

---

## Vormorgunn.

Gríma hljóð er horfin braut,
hrundið góðu næði,
hlírnisglóðar gyllir skraut,
grana slóð og flæði.

Fylla unni, loft og láð
lífsins brunnar tærir,
náttúrunni dug og dáð
dýrleg sunna færir.

Alt, sem lifir, lágt og hátt,
lífs er hrifið glaumi,
helgan skrifar herrans mátt
heimsins yfir straumi.

Hefjum snjallir hönd og geð,
hlýtt við kall á morgni,
tökum allir undir með
árdags Gjallarhorni.

---

## Á leið vestur yfir Klettafjöll.

Klettafjöll traustu, með hnjúkana háu,
hlíðarnar, skógana, lækina bláu,
urðir og gilin og gjárnar og sprungur,
gnæfandi tinda og hamra og klungur,
dalina, fossana, frjósama reiti,
friðsælu heimkynnin, dældir og leiti,
gullið og silfrið und sviplegum brúnum,
silung í straumum og blómin á túnum.

Gnæfandi tindar með tignina háu,
tjaldaðir stjarnanna ljóshveli bláu,
við ykkar rætur er frelsi og friður,
fegurð í dölum og smástrauma kliður.
Lítið þið austur, er gullroðinn geimur,
gróandi akrar og búsælda hreimur;
horfið þið vestur, er syngjandi særinn,
suðræni varminn og hressandi blærinn.

Undrandi lít eg á leiðina fríða,
letraða stórvirkjum horfinna tíða,
talandi vottinn um þróttinn og þorið,
þrautirnar mörgu við frumbýlings sporið.
Brautin er höggvin og brúuð og grafin,
boruð í klettinn, of dældina hafin;
ógnandi brekkan og dalverpið djúpa:
dásemd og ráðgátum útsýnið hjúpa.

Eimlestin brunar um brautina þungu,
bergmálar lagið, er hetjurnar sungu,
sem að hér stríddu og leiðina lögðu,
luku við daginn og til okkar sögðu:
"Þið getið starfað og lýti vor lagað,
leiðbeint því öllu, sem miður er hagað;
við brutum ísinn á meðan við máttum,
miðluðum öllu því bezta, vér áttum.

Áfram, til vesturs; á leiðina líður,
lestin er hraðskreið og krafturinn stríður;
krókótt er brautin um brekkur og klungur,
blágrýtisurðir og skriður og sprungur.
Efra rís tindur með blæjuna bláa,
brattur og stoltur við loftsali háa;
neðra er dalurinn þögull og þröngur,
þéttvaxinn skógur og lækjanna söngur.

Vegurinn léttist, nú lifnar og fríkkar,
ljúfara, bjartara, útsýni víkkar.
Borgin, með skrautlegu hallirnar háu,
horfir að skínandi sæhveli bláu.
Kraftur og fegurð í faðmlögum búa,
frjósömu reitunum eikurnar hlúa;
tápið og fjörið í leiftrandi loga
leikur um brosandi strendur og voga.

Fránhýri ægir með fallþunga niðinn,
frelsið og hreystina, töfrandi kliðinn;
firðir og vogar með vinblíða hljóma,
vaggandi gnoðum í árdegis ljóma;
drangar og tangar og tindarnir háu,
titrandi, glitrandi straumarnir bláu,
gullroðinn skógur og grundirnar fríðar,
gróandi akrar, og dalir og hlíðar.

Hér vil eg hvílast og leiðinni létta,
ljúft er að dreyma, hið ókomna frétta:
Fríð verður ströndin, þá stundirnar líða,
starfið og framsóknin menningar tíða.
Hvað segir aldan, sem berst fyrir blænum,
blikar og hverfur í freyðandi sænum?
Lífið er geisli, sem leiftrar á hafið,
lögum og ráðgátum himinsins vafið.

6

## Ungur lifa og deyja.

Yfir húm og harma
harpan mín skal óma,
þar sem vorið varma
vekur gleðihljóma.

Inn með alt hið bjarta,
árdags fjör og varma.
Út með alt hið svarta,
efa, víl og harma.

Gegnum kóf og klungur
knátt skal stríðið heyja,
óðinn syngja ungur,
ungur lifa' og deyja.

Ljósið æsku ára,
engill minn á brautum,
gaf við tökin tára
táp í öllum þrautum.

Þegar síðsta sinni
svellur dauðans boði,
ljómar andans inni,
æsku minnar roði.

## Myndin.

Í björtum reit við bárulind
þar blómin prýða grein,
við sjónum brosir máttug mynd,
svo munar blíð og hrein.

Já, þangað oft minn hugur hljótt
frá heimsins glaumi snýr.
Sem stjarna björt um blíða nótt
þar brosir myndin skýr.

Á meðan geng eg lífsins leið,
er ljúf og kær sú mynd,
þó mig og hana skilji skeið,
hún skín við hjartans lind.

## Kveðið fyrir pilt til kærustu hans.

Munar svinna silkihlín —
sólin minna daga. —
eg er þinn og þú ert mín,
þar skal tvinnuð saga.

# Björkin.

Eg horfði yfir hljóðan lund
í haustsins blæ um aftan stund,
og sá hvar bliknuð björkin stóð,
sem brosti áður fríð og rjóð.
Nú var hún döpur, dauf og ein
og dáin lauf á hverri grein.

Hún syrgði liðna sumartíð
með sólu, dögg og ljóðin blíð,
því blómin hennar bleik og köld
nú byrgðu dauðans skuggatjöld.
Mér virtist henni svíða sár
og sýndist að hún feldi tár.

Við haustsins kalda huldu-spil
eg horfði gljúpur moldar til.
Mér fanst eg einn á eyðimörk,
með örlög söm og þessi björk.
Svo gekk eg hljóður heim á leið
með hjartað klökt um aftanskeið.

## Í kveðjusamsæti

Mr. og Mrs. L. Jörundssonar, í Winnipeg.

Hver skilnaðsstund á sterka, djúpa hljóma,
er stefna hugans sjón um gengna braut;
frá grunni hjartans ótal raddir óma
um atvik liðin, blönduð sæld og þraut.
Sé ykkur hjónum helgað þetta minni,
er hjá oss lengi reyndust trygg og föst,
með ást og von á allri samleiðinni
við æfidagsins þungu straumaköst.

Það er svo ljúft að lyfta sjón til baka
og líta það, sem gaf oss horfin tíð;
á munarhimni viðburðirnir vaka,
er vitna glögt um reynslu lífs og stríð.
Með frumherjunum fánann ykkar bjarta
við fengum séð í hverri dagsins raun;
þið réttuð fúsa hönd og vinar hjarta
af helgri dygð, sem aldrei bað um laun.

Hér skilja brautir, brátt að kvöldi líður,
frá brjóstum vina stígur óskin heit,
á meðan geisar straumur tímans stríður,
hver stundin verði björt á nýjum reit.

Ó, farið heil til frjórra vesturstranda,
þar flæðið bláa syngur hlýrra lag,
við fylgjum þangað ykkur trútt í anda,
með ást og þakkir fyrir liðinn dag.

---

## Til Mr. og Mrs. Ág. H. Bjarnason

í kveðjusamsæti í Winnipeg, 7. ágúst 1923.

Þú komst að sjá og kanna nýja vegi,
þú komst að líta þinna bræðra sveit,
þú komst með sjóð á sumar-hlýjum degi,
að sá í okkar dreifða þjóðlífs reit.
Þinn svipur, vígður sönnu hetju blóði,
oss sýnir ættarmerkin glögg og há,
og máls þíns kraftur, mær í sögn og óði,
er móðurlandsins tungurótum frá.

Til heimalandsins helg þig skyldan kallar,
en hér í vestri standa okkar bú.
Og vit, hér þagna aldrei raddir allar,
því Íslendingar geyma von og trú.
Hvert djúp má brúa bræðralagsins anda,
svo blómin spretti köldu grjóti frá.
Já, sýnum dáð og hefjumst allir handa,
því háa, göfga marki til að ná.

Við kveðjum þig, með þínum kæra svanna,
í þökk og minning fyrir gefna stund.
Þú sást vor ból og sveitir landnemanna,
og svo er þitt að dæma slíkan fund.
Þó fjarlægð hamli frænda gleðimótum
og frónska drengi skilji eyja band,
er eitt, sem geymist okkar hjartarótum:
þín ást og trú á vorra feðra land.

---

## Til Mr. og Mrs. Sigurðar Anderson.

við burtför þeirra frá Winnipeg, í apríl, 1921.

Hver vinur, sem að hlýja hönd oss rétti
við hretin köld og sumardagsins yl,
af bróðurþeli lífsins byrði létti
og lagði fram það bezt hann átti til,
hann gaf þann auð, sem enginn frá oss tekur,
sem inst og dýpst frá hjartans grunni skín;
já, það er ljós, sem vermir oss og vekur
og varir, þegar prjál og tildur dvín.

Með bróðurhönd í blíðu jafnt og stríðu
þú bauðst oss æ af fremsta megni lið,
og fylgdir dýru dæmi Halls af Síðu,
við dagsins glaum að elska sátt og frið.

Þú hlóðst þér enga höll af Mammons valdi,
er húmi vefur kalda nirfils sál,
en mannúð þín á minninganna spjaldi
er mark, sem gnæfir yfir stunda tál.

Þín brúður kær, er björtum geislum stráði
á braut, sem nú er gengin fram á haust,
hún var með þér í verki, hug og ráði
og veitti okkar málum fylgi traust.
Þó vegir skilji, geymist alt hið góða
á göfgra vina leið um tímans dröfn,
þeir helgu strengir inst og ljúfast ljóða,
þá lendir æfi-fley í síðstu höfn.

Vort fáa lið, þá frumherjarnir kveðja,
sem fúsir með oss háðu dagsins stríð,
í minning þeirra gott er sig að gleðja
og geyma það, sem færði liðin tíð.
Því óskum vér í hjartans óði hlýjum,
að herran lífs, er aldrei neinum brázt,
sé ykkar líkn og ljós á vegi nýjum.
Ó, lifið heil í kærri þökk og ást.

## Minni kvenna.

Flutt á afmælissamkomu Tjaldbúðarkirkju 14. des. 1921.

Heill þér, meyja, móðir, kona,
mannsins sól og hlíf,
markið hæstu heimsins vona,
huggun, skjól og líf;
þú ert fegurð, ást og yndi,
eilíft söguhrós,
skraut á efsta tignar tindi,
tár á minstu rós.

Gegnum lífsins tjón og trega
trygðin helga skín,
alt hið göfga, guðdómlega
gyllir sporin þín;
barnsins veika vöggu kvaki
vígð er hönd og sál;
þitt að efsta andartaki
ómar kærleiks mál.

Alt í dagsins ljós þú leiðir,
lífið bezt sem ól,
eins og vorið blítt, sem breiðir
blómin móti sól;

sértu fjarri, þúsund þrautir
þrengja sál og mund;
vertu nærri, bjartar brautir
brosa hverri stund.

Mannsins fyrsta þrá í þrautum,
þróttur fram að gröf,
æðsta ljós á öllum brautum,
eilíf himins gjöf;
göfga móðir, heita hjarta,
helgað ást og trygð,
vetrarhret og vorið bjarta—
vígt er þinni dygð.

---

Markið hækkar, myrkur lækkar,
meyja, vald þitt rís;
villum fækkar, styrkur stækkar
starf þitt, heilla dís,
margra alda mein og hlekkir
missa fúið hald,
heilagt kall, nær heimur þekkir,
hlýtur dygðin gjald.

Heill þér, kona, meyja, móðir,
mannsins lukku sól,
leiftri þitt um lífsins slóðir
ljós á veldisstól;

fyrir andans auð og gæði,
orðin blíðu klökk,
hljóttu sæmd í sögn og kvæði,
signuð ást og þökk.

---

## Minni Canada.

Vermandi vor,
vekjandi vonblíður hreimur,
vaxandi lífsnægta geimur,
þróttur og þor.

Það er vort láð,
víðfrægi vestræni geimur,
vonanna brosandi heimur,
dafnandi dáð.

Frumleg og fríð
fóstra sem brosandi breiðir
barminn, og leiðina greiðir
leitandi lýð.

Æskunnar óð
syngur þú hraustan og hlýjan,
hljómfagran, blíðan og nýjan,
þróttríkri þjóð.

Einkunnar orð
þitt er, að menningar merki
maður í anda og verki,
stórhuga storð.

Fullhugans fold,
starf þitt í dag er hið stærsta,
stærra á morgun hið næsta,
mannvirkja mold.

Framsóknar frón,
ljósið með líðandi árum
lyftir á menningar bárum
sannleikans sjón.

Gróandi grein
breiðir mót brosandi dögum
blómin í sólríkum högum,
heiðbjört og hrein.

Styðji þinn stól — —
friður og kærleikans kenning,

kraftur og vaxandi menning,
búsæla ból.

Sögunnar sól
krýni þig leiftrandi ljósum,
lýðfrægum sveinum og drósum,
blessaða ból.

---

## Minni Íslands.

2. ágúst 1909.

Lyft þér, andi Íslands sona;
upp á hlýrri gleði stund,
sólin hæstu sigur vona.
signi geislum þennan fund,
reistu merkið, karl og kona,
kærri helgað fóstur grund.

Snælands tindar endur-óma
æsku stunda gleðibrag,
instu strengir hjartans hljóma
hlýtt við móður æðaslag.
Sækonunga sigurljóma
Sagan geymir enn í dag.

Gunnarshólminn girtur legi
gaf oss dýran heimanmund,
sem í björtum vestur vegi
vermir fram að hinztu stund.
Norrænt táp það tapast eigi,
trausti fyllir sál og mund.

Heill þér, móður frónið fríða,
flæði girta jökulból,
stuðlaberg í straumi tíða,
stafað vorsins nætur-sól,
þar sem hreystin hetju lýða
hyllir sögu veldisstól.

Geymum Íslands frægð og fræði,
forna dygð og víkings blóð,
snilli máls og kraft í kvæði,
kjarnann lífs af feðra slóð;
dafna þá við dagsins gæði
dýrstu blóm hjá vorri þjóð.

Lyft þér, Ingólfs foldin fríða,
frjáls á lífsins sigurbraut,
fram með þor og styrk að stríða,
stefnuföst í hverri þraut;
afl og menning yngstu tíða
ætíð falli þér í skaut.

## Canada.

Canada með brosið bjarta,
búin skrauti, djörf og frjáls.
Unga land, með eld í hjarta,
andans þor og taugar stáls.
Þú átt fjöll og velli víða,
vötnin, skóga, akurlönd.
Canada með faðminn fríða,
fjör og líf í sál og hönd.

Styrktir von til stranda þinna
stýrðu margir langa braut,
engum brázt við brjóst þín finna
björg í dagsins sókn og þraut.
Fjarskyld börn úr ýmsum álfum
una við þitt skjól og ráð;
aldrei vanstu huga hálfum
hlutverk þitt með fjör og dáð.

Búsæld þinna björtu sveita
brosir allra sjónum mót,
hér er hverjum leyft að leita
láns að þinni hjartarót.

Hvergi dygð og dáð í verki
dýrri sigurlaunin hlaut.
Sérhvern dag þitt manndóms-merki
meira rís á tímans braut.

Unga landið, fóstran fríða,
faðmur þinn er öllum kær;
afl og menning æsku tíða
inst frá þínu hjarta slær;
þú ert skautið dýpstu drauma,
dagsins hæsta vonarsól,
framsókn þinna frelsisstrauma
færir öllu líf og skjól.

Canada, með brosið bjarta
blíðum vonargeislum stráð,
þú átt okkar hönd og hjarta,
hinzta óðinn, mál og ráð.
Krýndu þjóðlíf þinna barna
þrótti, dygð og vilja stáls;
öðrum löndum leiðarstjarna
lyftu merki hrein og frjáls.

---

## Minni.

Flutt á samkomu við Íslendingafljót 9. nóvember 1914.

Öldur fjögra áratuga
endurljómar þessi stund,
þegar hingað leiðir lögðu
landnámsmenn á vesturgrund.
Eftir lett og langa göngu
létt var ferðum, hér var áð,
numin lönd og hlaðin hreysi,
hafin sókn með von og dáð.

Fyrstu árin frumbýlinga
færðu starfi léttan sjóð,
stríddu móti sterku fangi
stormar, eldur, hret og flóð.
Íslenzkt táp í tímans raunum
taflið vann og bætti kjör.
Nú ber sveitin, sæl og fögur
sannan vott um auð og fjör.

Upp með fánann, ungi lýður!
Upp á nýrri þroskabraut!
Sjáið! óskir eru fyltar,
endurgoldið strit og þraut.

Þar sem hlassið uxinn áður
yfir þungar leiðir dró,
brunar lest á braut úr stáli,
báli knúð um grund og skóg.

Hjartans þakkir þeim, er báru
þungann dags í gegnum stríð.
Nú er þeirra niðjum runnin
ný og fögur vonartíð.
Vaskir sveinar, bjartar brúðir,
byggið reitinn, hrein og frjáls!
Geymið Íslands óð í hjarta,
eld og kraftinn feðra máls!

---

## Minni Lundarbygðar.

Hjá Álftavatni frónskir drengir forðum
sér festu lönd, þó efnin væru smá,
en stál í vöðvum, eld í hug og orðum
þeir áttu vorri kæru móður frá;
og seint og snemma myrkurstunda milli
af manndómsþreki dagsins stríð var háð,
og bygðin náði hagsæld, ment og hylli,
en hörðum dráttum oft var sagan skráð.

Af Grettistökum gildu frumherjanna
er gróin auði þessi bjarta stund,
það mörg og fögur fyrirtækin sanna
með fjör og dáð um velli, skóg og grund.
Vér eigum margt og mikið þeim að gjalda,
af móð og dug sem fyrst hér brutu slóð,
þeir gáfu oss í grunninn seinni alda
það gull og stál, sem merkir frónska þjóð.

Þú, tímans herra, hrausti sveinn og meyja,
í hegðan þinni lífs þíns gæfa býr,
því óðum fránir frumbyggjendur deyja,
sem fylgdust að með þrótt og ráðin skýr.
Þig kallar skyldan helg að hefja merki
og hækka það, sem reisti liðin tíð,
að tengja bræðrabönd í hug og verki,
svo bygðin verði auðnurík og fríð.

Þú, Lundar-bær, sem stígur sporin stóru,
af starfi þínu merkin prýða völl:
hvar áður lág og lítil býli vóru,
nú ljómar sjónum fríð og vegleg höll.
Vér óskum þess, að líf þitt strái ljósum,
að lengi dafni þjóðarhreysti forn,
og kveð þú svinnum sveinum lands og drósum
þinn siguróð á tímans Gjallarhorn.

## Minni Narrowsbygðar.

Narrowsbygð með hlýjan hljóm,
heið á fríðum sumardegi,
þar sem há við ölduóm
eikin teygir fögur blóm;
öll þín börn með einum róm
óska heill þín vaxa megi.
Narrowsbygð með hlýjan hljóm,
heið á fríðum sumardegi.

Hér við íslenzkt ættarmót
upp í skjóli blómin spretta;
stofninn þinn af þéttri rót,
þrekinn drengur, göfug snót,
skulu vinna vega bót,
vel og lengi krans þér flétta.
Hér við íslenzkt ættarmót
upp í skjóli blómin spretta.

Stefnum allir eina braut:
áfram til að ryðja veginn;
samúð gegnum sæld og þraut
sigurlaunin verðug hlaut;

von og friður vígja skaut,
viljinn gefur afl og megin.
Stefnum allir eina braut:
áfram til að ryðja veginn.

Þó að fámenn sé vor sveit,
sækjum djarft og höldum velli;
hefjum sjón í lífsins leit,
látum blómin prýða reit,
geymum dáð og göfugheit
gegnum bernskutíð og elli.
Þó að fámenn sé vor sveit,
sækjum djarft, og höldum velli.

---

## Gimli.

Minni flutt á Íslendingadaginn 2. ágúst 1913.

Fornhelga fríða
fold, sumarblíða,
leikvöllur lýða,
lífsþroska tíða.
Stór faðmar ströndin
straumiðu löndin;
hagsældar höndin
hnýtir þar böndin.

Frjálst er á flæði,
fjölskrúðugt svæði,
gróandi gæði,
gullituð klæði.
Glæst er för gnoða,
græði sem troða,
blikar á boða
búna sólroða.

Brautir til baka
bendir mér staka.
Kennir þar klaka,
kveinstafir vaka.
Fyrst hér þá fundu
frumbyggjar grundu,
örsnauðir undu
örðugri stundu.

Negg vermdi neisti
norrænnar hreysti,
lífsþrautir leysti
lýður og treysti;
þolið og þorið
þungann fékk borið;
vonin um vorið
vígði hvert sporið.

Vor fylgdi vetri,
vaxandi, betri,
sól skein við setri
sögunnar letri.
Hreysi lág hrundu,
höll reis á grundu;
frömuðir fundu
farsæld og undu.

Gróin er grundin,
glóir á lundinn,
búraunum bundin
burt liðin stundin.
Sól skín á sali,
svanna og hali,
syngur loftsvali
signa blóm dali.

Vinnum til valda,
velli skal halda;
kæfi hið kalda
kærleikans alda.
Dafnar þá dygðin,
drengskapur, trygðin,
bærinn og bygðin,
bræðra samhygðin.

Ginnfríða grundin!
Gnæf þú við sundin!
Fræg verður fundin
frumherja stundin.
Lyft þér og laga
lýti þíns haga.
Sveipi þig saga
sæmd alla daga.

---

## Þorrablótskvæði.

Minni Helga magra.

---

Ættarlandsins íturfríða
endurbjarta morgunstund,
þegar sögu sólin blíða
signdi dali, fjöll og grund,
lífsins óður landnáms tíða
lyfti hjarta, stælti mund.

Bygðu Eyjafjörðinn fríða
feður gæddir hetjumóð;
himinn, fold og voga víða
vígði frelsis-sólar glóð.
Heilladísir lands og lýða
lífsins kváðu siguróð.

Helgi magri ríkur reisti
rausnarbú á nýrri grund;
fylgi goða gildur treysti
gæddur spakri höfðingslund;
stýrði þjóð með hug og hreysti,
hjör og skjöld sem bar í mund.

Sér þú Kristness sali fráña
söguhimni brosa mót,
lýðmæringa frelsis-fána,
fáguð hof og þorrablót,
fjallkonunnar bernsku brána,
bjarta vorið, skjöld og spjót?

Heill sé þeim, er fjörðinn fríða
fyrstur nam og ruddi braut,
gilda stofninn greinar prýða
geislaríkt við móðurskaut.
Bergmál Íslands æskutíða
ómar gegnum sæld og þraut.

Aldir líða, grænar greinar
gyllir lífsins sunna heit,
ríka Guðmund, Glúm og Einar
geymir ennþá Helga-sveit;
göfug fljóð og svinnir sveinar
sinna feðra prýða reit.

## Minni.

Á fyrsta afmæli stúkunnar "Fram", 14. mai 1916.

Vort orð er "Fram" á frjálsri stund
nú færist þrek í hönd og lund
því vorið fagurt faðmar alt,
sem fyr var dauft og kalt.
Vér þökkum glaðir árið eitt,
er oss í samúð hefir leitt
og gefið dug og dáð á braut
við dagsins strit og þraut.

Hvert ár er lífsins sigursól,
er sannleiksfræ á jörðu ól;
hver liðnuð stund er líkn og náð,
af letri djúpu skráð.
Hvert göfugt verk, sem unnið er,
með áraröðum þroska ber,
og veitir lið og vígi traust,
er vefur geislum haust.

Kom, nýja skeið, með hlýjan hug,
og hærri sjón- og meiri dug,
og leið oss "fram" með frið og sátt
við frelsismerki hátt.

Lát gamla Bakkus falla frá,
svo fjör og lán oss dafni hjá,
kom blíða vor með bróðurhönd
að blómga hrjóstug lönd.

---

## Minni

stúkunnar "Djörfung", 26. janúar 1917.

Með "Djörfung" hátt vér hefjum okkar merki
af hjartans gleði, bróðurlund og trygð,
og sýnum það í orði, önd og verki,
að enn er táp og fjör í vorri bygð.
Í dagsins stríði fjöll og björg má færa,
ef fylkt er saman helgri eining með.
Já, það er eina leiðin til að læra
að láta ríkja sátt og kærleiks geð.

Þó kaldur vetur vefji grund og flæði,
skal vor og gleði orna hjartans reit.
Já, látum mátt í máli, hug og kvæði
og manndóm lifa, það sé okkar heit.
Þó hér sé hvorki glys né borga glaumur,
vor gæfa býr í sveitaró og frið,
á meðan æðir sterkur tímans straumur
með stríð og blindni, heift og spiltan sið.

Með "Djörfung" fram skal frelsismerki hefja
af félagsanda, trausti, von og dáð,
og látum ekki tál né sundrung tefja,
en tvinnum saman okkar beztu ráð.
Með áraröðum bygðar blómin stækka,
og bráðum gleymist unnið strit og þraut.
Já, óðum sporin erfiðleikans fækka,
sem áður ruddu landnemunum braut.

---

## Til Mr. og Mrs. Þ. Þorvaldssonar

á fimtiu ára hjónabandsafmæli.

Helgur heilladagur
hreyfir instu tónum,
hálfrar aldar hagur
hugans lyftir sjónum
gegnum liðnar leiðir,
lýsir hjartans minning,
blíðum geislum breiðir
bæði tap og vinning.

Á sigurdegi himin heiðum
frá hjartans grunni brenna ljós,
um hálfa öld, sem lýstu leiðum
til láns og frama hal og drós,
og vígðu starfið von og dug
með viljans kraft og bróðurhug.

Frá manns og konu kærleiks arni
fær kraft og menning sérhver þjóð,
þar fyrsta ljósið brosir barni
með bending út á tímans flóð;
ef æsku-stigin stefna rétt,
er starfi lífsins takmark sett.

Þið göfgu hjón í hug og verki,
sem hafið fylgst um langa braut,
hér gnæfir ykkar gullið merki
við geislum fágað haustsins skaut;
þó halli degi, enn er afl
með eld og þol við lífsins tafl.

Nú fagna vinir hlýtt af hjarta,
sem hafa notið ykkar liðs,
með ósk um framtíð unaðs bjarta,
unz öldur þagna hinzta miðs,
og signir fagurt sólarlag
í sæmd og þökk um merkan dag.

## Kvenfélagið "Björk".

Að tengja saman hönd og hug
er heill og sigur þjóða;
í vinarþeli, von og dug
felst vísir alls hins góða.
Þá margar hendur vinna verk,
má velta bjargi þungu;
sé hvöt til góðra gerða sterk,
með guð í sál og tungu.

Þó veikt sé lið og leiðin hál,
og lítið þrek að starfa,
vér þráum heitt að hefja mál
og hönd til sannra þarfa;
með eining, kærleik, ást og dygð.
skal auðga tímans brautir,
og reisa fagra "Björk" í bygð,
er blómum vefur þrautir.

Í helgri sátt, við sæld og þraut,
til sigurs liggja fetin.
Vér þökkum sumarsól og skraut,
og svölu vetrarhretin;

og felum þeim, er stjórnar stund,
hvert starf af vilja hreinum;
þá dafnar "Björk" í björtum lund
með blöðin fríð á greinum.

---

## Á sextánda afmæli Tjaldbúðarkirkju,

15. des. 1910.

Í kvöld er sælt að fagna hér og finnast
og friði helga sérhvert bros og tár;
í kvöld er ljúft á liðna tíð að minnast
og lofa drottinn fyrir horfin ár;
í kvöld skal guðleg gleðin strengi hræra
og gulli skreyta farin reynsluspor;
í kvöld er skylt að lyfta hug og læra
og láta breytast kuldanótt í vor.

Í klökkri þökk vér kveðjum sextán árin,
er krýndu geislum þennan helga stað;
í kærri minning saman tengjast sárin
og sæld, er drottins hönd oss rétti að;
í kvöld er sælt að sitja hér og ræða,
og sjá hvað liðin stund oss hefir kent;
það greiðir leið til ljóssins sigurhæða,
því lífsins reynsla er hin sanna ment.

Hvað lærðum vér á liðnum sextán árum?
Að ljóssins þrá er mannsins sigurbraut;
að andi frlesis eyðir þraut og tárum
og opnar himins djúpa kærleiksskaut,
en hjátrú blind er blekking lands og þjóða,
er byrgir sjónum hverja göfga mynd,
með vonlaus tár á vald og mátt hins góða
og villu, myrkur, heimsku, tál og synd.

Ó, látum sól og sannleik hjá oss skína;
þar sjáum vér hin æðstu lífsins mið;
og hvar sem gleðin geisla breiðir sína,
hún gefur oss þann sanna, rétta frið;
og ef við grétum góðan vin í moldu,
sem gröfin byrgir, þögul, dimm og köld,
þá huggar minning hafin yfir foldu
og hrygðin snýst í gæði þúsundföld.

Með von og trú og traust á alt hið góða
skal tengja þessa jörð við æðri heim;
við ljóssins yl er lán og sigur þjóða,
þar lífsins gígjan stillir dýpsta hreim;
að leita, nema, leiða, fræða, skilja,
og lýsa geislum þennan stundarfrest,
er skyldan hæsta, helguð drottins vilja,
og hillir það, sem varir lengst og bezt.

Hvað kendi liðin sextán ára saga,
er saman tengdi oss við þennan stað?
Hún geymir marga munar hlýja daga
um markið hæsta, sem vér stefnum að;
þó skamt sé stígið, stækka spor með árum,
því styrkur fylgir hverri reynslutíð,
og altaf glóir gull á lífsins bárum,
og gæfan þeim, er heyja sannleiks stríð.

---

## Í gullbrúðkaupi

Einars og Guðríðar Dalman, 4. október 1912.

---

Haustkvöldið gyllir, hörpuna stillir
hjartfólgin gleði með ástvina lag;
æfina hyllir, unaði fyllir
Einars og Guðríðar hamingju dag.

---

Sjá, Glóey geisla breiðir
og gyllir alt í kvöld;
nú brosa liðnar leiðir
með ljósin þúsundföld;
á stórri heilla-stundu
skal stilla gleðilag
til sæmdar hal og hrundu,
við hálfrar aldar slag.

Já, öldnum heiðurs-hjónum
sé helgað þetta kvöld,
við haustsins sól mót sjónum,
er signir hálfa öld;
hér skín oss blómið bjarta
svo blítt í hverri þraut,
með árdags yl í hjarta,
sem aldrei fellir skraut.

Ó, lítum leið til baka
og lesum farin spor;
sjá, ennþá vinir vaka
með von og traust og þor;
nú enduróma kvæði
frá æskudaga reit;
þar sæl þau sátu bæði
og sóru trygðaheit.

Hér glitrar gullin saga
við gildan hal og fljóð,
sem héluð blóm í haga
mót haustsins sólarglóð;
er nokkur heiður hærri
en hafa borið skjöld
með sátt og sambúð kærri
í sókn um hálfa öld.

Sjá börnin, hér sem breiða
sín blóm á leið í kvöld,
við haustsins loftið heiða,
það helgar dagsins gjöld;
og hin, oss fjarri falin,
nú frægja gengna braut,
þau voru einnig alin
við ykkar hlýja skaut.

Með þúsund þakkartónum
skal þennan kveðja dag,
og syngja heiðurs hjónum
vort hjartans dýpsta lag.
Þó hrímgi leið á hausti
og hnígi fölnuð rós,
vor ást í trú og trausti
er tímans sigur-ljós.

## Silfurbrúðkaups-minni

Mr. og Mrs. L. Jörundsson; Mr. og Mrs. J. Gottskálksson;
Mr. og Mrs. S. Anderson.
8. febrúar 1916.

---

Bjart er haust, við hjörtum
heiðar brosa leiðir,
aldarfjórðungs eldur
ornar sem til forna;
þrenn að mæru minni
munblíð hjónin una;
saga silfur-fögur
sýnir starf og krýnir.

---

Við aldarfjórðungs aftanroða
með ást og þökk vér stillum lag,
því ljúft er farna leið að skoða
og líta yfir horfinn dag;
frá hjartans grunni tónar titra,
þar trygð og gleði blanda hljóm;
und silfurhjálmi haustsins glitra
í helgum lundi vorsins blóm.

Í kvöld með vinum vinir sitja,
á vegferð gengna ljómar sól,

og hjörtun þögul þakkir flytja
til þess, er veitir kraft og skjól.
Því sérhver fjórðungs aldar óður
á ótal brautir högum snýr,
og þá hinn dýrsti dagsins sjóður
í dygð og samúð hjóna býr.

Með íslenzkt táp og trygð í verki,
við tár og gleði, kæru hjón,
af samhug undir manndóms merki
þið með oss liðuð sæld og tjón.
Hvað eigum vér, þá endar sporið,
og að oss kallar hinzta neyð?
Jú, það að hafa byrði borið
með bræðrum yfir farið skeið.

Og því skal hjónum helgað minni
af heillaóskum þetta kvöld,
að hvert með öðru frið þau finni,
er fági rúnum þeirra skjöld.
Það vor, sem nærði blómið bjarta
og brosti gegnum lífið alt,
sé ungt með þrótt og eld í hjarta,
svo aldrei verði haustið kalt.

---

## Til Mr. og Mrs. J. Friðfinnsson.

23. nóvember 1912.

---

Sitjið heil við helgan eld í kvöld!
Hér skal kveðja fjórða part úr öld.
Haustið blítt er hjúpað vonarglóð,
harpan stillir þúsund radda óð.

---

Í kvöld vér syngjum sigurlag
af sannri þökk í hjarta,
við aldarfjórðungs efsta slag
með endurskinið bjarta;
já, þessi stund er stór og fríð
og stíluð himins lögum;
hún sýnir oss að sæld og stríð
er sætt — að liðnum dögum.

Nú brosir vinum liðin leið
í ljúfri þökk og minning
við tímaskiftin himin heið,
með helgan sigurvinning;
og dýrleg verða dagsins spor,
þar dygð og ástin leiddi;
þá kærleiks glóð, er vakti vor,
ei vetur nokkur deyddi.

Við sérhvert stríð er sigur vís,
ef samúð ríkir inni;
nú hlakkar Lofn og hljómsins dís
að hjóna silfurminni;
og ljósin heiðum himni frá
— í helgu veldi fögur —
á götu vina geislum strá,
svo glitrar tímans lögur.

Með vinar hug og hönd í kvöld
vér hreyfum dýpstu strengi,
og þökkum dýrri drós og höld,
af dygð er fylgdust lengi;
á Mammons vog þó væru snauð,
er valta huggun gefur,
þau hafa safnað öðrum auð,
sem æðra gildi hefur.

Ó, lifið sæl við sólar glóð
á sigurblíðu hausti,
til hærra marks að safna sjóð
í sannri von og trausti.
Vér þökkum alla liðna leið
með ljúfum strengja hljómum,
og biðjum gæfan skreyti skeið
og skýli ykkar blómum.

## Til Mr. og Mrs. G. Eyford.

Sem vorið bjart er breiðir geisla hlýja
á blómin ung við himins daggar tár,
er sætt og blítt við sól að endurnýja
á samleið vina horfin reynsluár.
Það lyftir hug og svalar dýpstu sárum
með söknuð þess er hjartað unni bezt,
og veitir kraft á völtum lífsins bárum
að vinna meðan tíminn gefur frest.

Af vinarhug og hönd á þessum degi
sé húsið ykkar von og gleði skreytt;
vér þökkum fylgd á förnum æfivegi,
sem fús þið veittuð, jafnan bæði eitt;
þið eigið hjartans auð, sem grær og lifir
og á ei skylt við fánýtt prjál og tál,
en bendir sjónum takmörk tímans yfir,
með traust og frið, er göfgar líf og sál.

Vor stundabraut er letruð föstum lögum,
en lánið valt og sjónum hulin tíð.
Því hjálpar bezt á hröðum æfidögum
að horfa glaður yfir skammvint stríð.

Þá hver með öðrum blóm á veginn breiðir
af bróðurhjarta sérhver þraut er létt;
að einni ströndu liggja saman leiðir
og lífsins hafið verður bjart og slétt.

---

## Kvæði

til Mr. og Mrs. Th. Thórarinsson, á silfurbrúðkaupsdegi þeirra, 2. júní 1911.

Í fjórðung aldar farin leið
er fáguð minning kærri,
nú brosir sólin helg og heið,
já ,hún var aldrei skærri;
hve sælt að líta liðin spor
með ljúfu vinar geði,
þá ljómar haust sem heiðríkt vor
af hjartans þökk og gleði.

Við silfur-skæran sögu-óð,
í sambúð vina tveggja,
er listin hæst að sýna sjóð
með sól í hjörtum beggja;
því hvað er fé og frægð og völd,
ef frið og kærleik brestur?
Þá sígur húm á síðsta kvöld.
hinn sanni verður mestur.

Í kærri þökk af hlýjum hug
skal helga þetta minni,—
og vígja kvöldið von og dug
á vina samleiðinni;
vér þökkum ykkur, heiðurshjón,
er hafið með oss staðið,
og fest á marki sönnu sjón,
er sýnir rétta vaðið.

Þótt silfri hár og blikni brá
er blítt í von að ganga;
því ástin glæðist himin-há
við hverja reynslu stranga;
svo hefjist ykkar helga skraut
of haustsins bárur kaldar,
með sama yl og sól á braut,
er signdi fjórðung aldar.

---

## Kvæði

til Mr. og Mrs. S. Anderson,
flútt í silfurbrúðkaupi þeirra 29. desember 1912.

Þegar gengin er braut
er vort yndi og þraut
alt í minning og þakklæti vafið;
vorsins vinblíða yl
heilagt hásumarbil
krýnir vetur með von yfir hafið.

Á sigurhæðir sögugyðjan stígur
og silfur letri fágar tímans skjöld,
en aldarfjórðungs sól í hafið sígur
og signir geislum þetta fagra kvöld.
Vér sjáum djarfan dreng og svannan prúða
af djúpri lotning þakka gengin spor;
þó leiðin búist bleikum haustsins skrúða,
í beggja hjörtum enn er fjör og vor.

Já, látum, vinir, gígjustrengi gjalla
með gleðilag við helgan kærleiks-yl;
hér von og ást í faðmlög saman falla
og frægja þetta merka tímabil.

Á meðan gullnar guðaveigar freyða
og gæfan krýnir hjóna silfurskál,
vér skulum allir blóm á veginn breiða,
en bægja því, er skapar hrygð og tál.

Þú, gildi höldur, sæll með kærum svanna,
nú sit og fagna þinni gæfutíð.
Vér þökkum fyrir fylgd og mannúð sanna
og fjör og þrek í lífsins orrahríð.
Og hún, sem var þín vonarstjarnan bjarta
og vígði geislum hverja stundarþraut,
nú þiggi ást og yl frá voru hjarta
með ósk, að sigur krýni langa braut.

Við aldar fjórðungs aftangeisla blíða
af ást og virðing hér sé drukkin skál,
og biðjum hann, er lögum stýrir lýða,
um ljós og traust við stundasporin hál.
Í helgri þökk frá þúsund radda strengjum
sé þetta minni ykkar heiðurs gjöf,
með hjartans ósk frá drósum eins og drengjum,
að dagar haustsins brosi fram að gröf.

## Til Þórðar Jónssonar og Guðnýjar konu hans,

í silfurbrúðkaupi þeirra 20. maí 1921.

Hver stund sem að líður er lögmáli háð,
er lífgjafi mannanna setur,
og atvikin sælu og söknuði skráð
með sólgeisla leiftur, og vetur;
en ástvina trygðin er aflið á braut,
með eilífan sigur við kærleikans skaut.

Vér lítum til baka á blikandi haf
með brosandi vortíða glaumi,
þá heimurinn ljómaði unaði af
í æfinnar vonblíða draumi.
Hann Þórður og Guðný þá unnu þann eið,
í eining að fylgjast um daganna skeið.

Og trúlega heit það var haldið og geymt,
þess hjartkæru vinirnir njóta;
og aldrei var skyldu um æfina gleymt,
að unnast og vinna til bóta.
Í fámennu liði á framandi strönd
þér fylgduð oss jafnan með ráði og hönd.

Því óskum vér hjónum til heilla í kvöld
með hjartfólgnum þökkum og trausti,
er hjá oss við fullnaðan fjórðung úr öld
nú fagna á silfruðu hausti,
og lofa vorn guð fyrir æfinnar ár,
sem ástvinum blessaði gleði og tár.

---

## Til Mr. og Mrs. Helga Jónssonar.

Í silfurbrúðkaupi þeirra 3. október 1921.

---

Við aldarfjórðungs aftan-geisla skin
nú endurljómar sól frá vorsins stundu,
í hlýjum reit þar vinur leiddi vin
og vonir dagsins helga þætti bundu.

Í gegnum árin unað lífs og stríð
með atvikanna straum á tímans leiðum,
skín ennþá sama sólin heit og blíð,
er svein og meyju festi trygða eiðum.

Ó, kæru hjón, við háleit tímamót,
er hafið leiðst um farna æfivegi,
nú hljómar ykkur hlýtt af instu rót
vor heillaósk á silfurbrúðkaups degi.

Þið hreyktuð aldrei hálum stunda auð,
en húsið bygði trú og kærleiks ylur,
með viljans kraft að veita snauðum brauð,
og verma þar sem næddi kaldur bylur.

En börnin kæru blessa ykkar tíð
og breiða ljós á alla tímans vegi;
sá auður ljómar yfir húm og stríð,
með ódauðleikans kraft frá sælli degi.

Þó halli degi, bjart er enn á braut
og byrðin létt, þar eining ræður verki,
því ástin breiðir blóm á hverja þraut
og bendir hug að lífsins sigurmerki.

Vér þökkum ykkar aðstoð liðna tíð
og alt hið góða, helgað fúsum vilja,
að hafa lært að létta öðrum stríð,
er ljósið hæsta, þegar vegir skilja.

## E. Jörundson og Þóra Anderson.

Ótal þúsund hörpur hljóma —
herrans náðargjöf.
Sjáið vorsins sólarljóma
signa lönd og höf!
Helgar dísir himins sala
hefja gleðilag;
heyrið allar tungur tala
traust og von í dag!

Lyftum máli, hönd og hjarta,
helg er þessi tíð,
þar sem Lofnar-brosið bjarta
blómin tengir fríð:
Ungur sveinn og svanninn blíði
sverja trygða eið,
jafnt í sæld og stunda stríði
stíga sömu leið.

Von og traust, sem vorið gefur
verði ykkar skjól.
Alt, sem göfugt gildi hefur
glóir ofar sól.
Hjóna dygð er lands og lýða
lán í sæld og þraut;

þaðan ljómar ljósið fríða
lífsins alla braut.

Æsku vonar strengi stillir
stundin nær og fjær,
lífið ungum hjónum hyllir
himinn, jörð og sær.
Helgum minni vorra vina
vorsins gleðihljóm.
Kærleiks sól á samleiðina
sendi þúsund blóm!

## Silfurbrúðkaup Mr. og Mrs. Ottensonar.

5. september 1916.

Sól á heiðu hausti breiðir
helga glóð of farnar slóðir,
hjónin svinn að sigur minni
sitja glöð í vinaröðum;
Íslands svipir öndveg skipa,
ornar neistinn, forna hreystin;
enn á skildi skína gildir
skarpir þættir víkings ættar.

Sé ykkur hjónum hlýtt í dag
við hljóm af liðnum brautum,
með tilfellanna hálan hag
í höppum lífs og þrautum,
sem hafið gengið trygðum tengd
á takmark, silfur árið,
því víst á slíkri vegalengd
oss veitt er mörgum sárið.

Já, það er margt á langri leið,
sem lifir minning vafið,
með söknuð, gleði, sæld og neyð
um sollið stunda hafið.
En reynlsan gefur táp og traust
sem talar öllu hærra,
þar er vor sigursól um haust,
er sýnir markið stærra.

Þið báruð með oss byrði dags
á brautum æfi tíða,
í þrautum okkar þjóðfélags
hve þungt var oft að stríða;
en þá var hjálpar höndin rétt
við helga kærleiks tóna;
þar lýsir sælan sólskins blett
í samfylgd ykkar hjóna.

Vér þökkum sérhvern fegins fund
sem frægði ykkar merki,
vér þökkum hlýja höfðings lund
með hug og dug í verki.
Sé ykkar leið um lífsins vog
með ljúfum strengja hljómum,
svo hrein sem norður ljósa log
og létt sem dögg á blómum.

---

## Mr. og Mrs. G. Ísberg.

á þrjátíu ára giftingarafmæli þeirra.
Sumardaginn fyrsta, 1917.

---

Við þriggja tuga skundað ára skeið
er skylt og ljúft að minnast kærra vina,
og þakka fyrir fylgd og stoð á leið,
er fáði geislum alla samleiðina.

Og nú, við þessi merku stunda-mót
oss mörg er rúnin kær á gömlum blöðum,
með höpp og tjón við tímans öldu rót
í tilfellanna straumi megin hröðum.



Já, það er margt, sem bendir farna braut
og breiðir ljós á sporin frumherjanna.
Við nutum ykkar þá í hverri þraut,
með þor og dug og kærleiks eðlið sanna.

Því hvað er öll vor andans ment og ráð,
ef eining brestur til að lyfta merki?
En þar er sönnu sigurmarki náð,
hvar samúð ríkir jafnt í hug og verki.

Þú göfga kona, góða systir vor,
er gafst oss ráð og ljós á förnum vegi,
nú ljómar sérhvert samvistanna spor
í sælli þökk á blíðum haustsins degi.

Vér þökkum, systir, langa, farna leið,
með ljós og yl í gegnum sæld og tárin;
þín mannúð lifir, himinblíð og heið,
í hjörtum vina, þó að streymi árin.

Ó, kæru hjón, við haustsins friðar skaut,
vor helg er þrá, af vinaranda glöðum,
að enn þið lengi lýsið okkar braut
með líf og yl í tímans straumi hröðum.

(Fyrir hönd kvenfélagsins í Siglunesbygð.)

## Pétur E. Anderson og Vilborg Jónsdóttir.

Á blíðu vori blómin gróa fögur,
þar blöðin nærir dögg og sólarglóð;
þá brosir heiður himinn, fold og lögur
og hörpustrengir óma þúsund ljóð.
en alt er þetta eins og hverfull draumur,
sem endar þegar næða hretin köld,
því líf á jörð er stríður tímans straumur,
sem stefnir fram á þögult æfikvöld.

En það sem grær og gildi stöðugt hefur
við geislaskin og mannlífshretin köld,
er blóm, sem eilíf ástin hjörtum gefur,
sem aldrei þekti dauðans bitra kvöld.
Já, það sé ykkar eign um lífsins daga,
sem eiða vinnið þessa helgu stund;
þá verður fögur samverunnar saga,
er sigurminning krýnir hinsta blund.

Að velja braut, sem gjöldin sönnu gefur,
er gróðinn mesti, æðsta lífsins skraut,
því hver sem traust og trú og kærleik hefur
í tímans stríði sigrar hverja þraut.

Þú, sveinn og mey, með sól og vor í hjarta,
er saman bindið vilja, ráð og hag,
á ykkar leiðum ljómi ástin bjarta,
um langan, heiðan, sögufrægan dag.

---

## Til Mr. og Mrs. W. G. Johnson,

á silfurbrúðkaupsdegi þeirra.

Það er svo ljúft að líta farnar brautir
og lesa margt, sem tíminn hefir skráð,
þar vinir gengu gegnum sæld og þrautir
við geisla skin frá himins djúpu náð;
já, þá er sælt við silfurbikar fyltan,
að signa þökkum löngu horfna stund,
þá æskan brosti björt við feril gyltan
og böndum ástar tengdi hal og sprund.

Og nú er leið í fjórðung aldar farin
og fögru tímans sögumarki náð;
sjá, starfið krýnir bjartur blóma skarinn
með bending, sem er helgu letri skráð.
Hvert spor til frama fortíð ykkur greiði,
er fági sambúð lífsins dygðakrans;
í síðstu hafnir lán og friður leiði,
já, lifið heil í skjóli gjafarans.

## Til Mr. og Mrs. S. J. Jóhannesson,

í gullbrúðkapi þeirra, 28. október 1911.

Nú fagnar braga-dís í dag
af dýpstu hjartarótum,
og gígjan stillir gleðilag
á gullnum tímamótum:
Því hann, sem reyndist heill á ferð,
og hróðrar þeytti lúður,
nú stendur hér með sigur-sverð
í samfylgd kærrar brúður.

Með gullinn sigur-sögu-skjöld
er sælt á tímans landi
að hafa lifað hálfa öld
í helgu trygðabandi,
við hret og sumar-brosið blítt,
en borið jafnan sigur,
og geymt það blóm í brjósti hlýtt,
sem bítur enginn vigur.

Vor kæri bróðir, þökk sé þér
og þinni tryggu brúði;
þú stýrðir laust við stunda sker,
þá straumur fleyið knúði;

við æfidaga skúr og skin
til skyldu blóð þitt streymdi;
þar átti móðir mætan vin,
er mál og sögu geymdi.

Þú fylgdir oss um farna stund
á frama-braut, til þinga,
með norrænt þrek og þétta lund,
í þrautum frumbýlinga.
Við hreysti þrunginn hróðrardans
á helgri móðurtungu,
um drengskap feðra, dísir lands
þér djúpt í hjarta sungu.

Þín lund vár trygg og trúin heit,
með táp í dagsins raunum;
í mörgu hjarta hlýjan reit
nú hlýtur þú að launum.
Sit heill með þinni hrund í kvöld,
að hálfrar aldar minni.
Kom, haust! með gæði hundraðföld
á hjóna samleiðinni.

Nú hallar degi, senn er sól
í svala djúpið gengin;
hve ljúft er þá að þiggja skjól
og þreyttan hvíla strenginn.

Þá huggar bezt og gleður geð
og gildir öllu lengur,
að hafa barist bræðrum með
og borið skjöldinn drengur.

---

## Á brúðkaupi

Friðf. J. Friðfinnssonar og Stefaníu Guðnýar Skagfeld.
4 apríl 1911.

Hvað er sigur lands og lýða,
lán og yndi, von og skjól,
endurnæring allra tíða,
eilíf vorsins dögg og sól?
Ástin helg, er svein og svanna
sveipar lífsins blómakrans,
vernd og traust á vegum manna,
vígð af kærleik gjafarans.

Þegar sólin vermir vorið,
vaxa greinum fögur blóm,
þá er sigri sérhvert sporið
signt við lífsins gleði hljóm;
þannig meyjar hönd og hjarta
helgar mannsins æfibraut,
himins geisla brosið bjarta
blessar dagsins sæld og þraut.

Blíð í heiði ljósin ljóma
lífsins hæsta vonardag,
þúsund raddir enduróma
eilíft vorsins strengja slag;
þessi stund er stór og fögur,
stíluð drottins ást og náð,
þegar tengja mey og mögur
mál og hjörtu, verk og ráð.

Heill þér, sveinn og brúður blíða,
byrjið þennan merkisdag
glöð í trú á ljósið lýða,
lífs er öllum ræður hag;
stríðið djörf með styrk og þoli,
starf sé helgað ást og dygð;
brosir enn frá Bergþórshvoli
brúðarskartið, eilíf trygð.

Vorblóm ungu, vígið daginn
vona á hann, sem lífið ól;
þá mun frjófgur heima-haginn
hefja greinar móti sól.
Heyr og skil, þú maki, móðir,
menning heims er sambúð þín;
þaðan lífsins geilsa glóðir
glitra meðan ástin skín.

## Flutt í Gullbrúðkaupi Mr. og Mrs. Jóns Hallsonar

24. febrúar 1910.

Heiðruðu gestir, vinirnir vaka,
vonin og ástin þar samstilla lag.
Sælt er að lifa og líta til baka,
læra, og þakka hvern samverudag.

Fimtíu árin, hrímguðu hárin
hylla þig, aldraði beimur og sprund,
gleðin og tárin, sælan og sárin
sameinuð gylla nú hamingjustund.

---

Nú stafar geislum haustsins sigur-sunna
á sambúð tveggja, gifturíka braut;
hve sælt og ljúft að eiga vin og unna,
það yfirbugar sérhvert stríð og þraut.
Sjá, hálfrar aldar hnígur sól að baki,
er helgum eldi vermir beggja sál;
og því er skylt, að vinir glaðir vaki
og vígi gulli þessa hjónaskál.

Það mark er öllu heimsins veldi hærra,
þar hjörtun tengja ódauðleikans bönd.
Já, víst er hverju lífsins láni stærra,
um langa braut að styðjast vinarhönd;

og þá er létt hið þyngsta starf að vinna,
og þraut og reynsla hljóta sigurkrans,
því göfgar sálir frið og gleði finna
í fögru skauti ljóss og kærleikans.

Já, gleðjumst meðan leiðir saman liggja,
og lærum það, sem gefur hæstan arð:
Vor félagsbönd og bræðrahug að tryggja
og byggja þar sem tíminn heggur skarð;
hið góða fræ með degi hverjum dafnar
og dreifir blómum yfir hjarn og þraut;
og hann, er flestum sannleiksperlum safnar,
er sögukappinn, þegar lýkur braut.

Þið sælu hjón, er hafið leiðst svo lengi
í ljósi því, sem aldrei neinum brást,
þið hafið lært að stilla saman strengi
og starfa dygg í helgri von og ást.
Þið hafið örugg hita dagsins borið,
þó höndin lýist, skarpt er viljans stál,
og enn í hjörtum vermir blíða vorið,
er vígði forðum ykkar hjónaskál.

Frá vinum ykkar hlýjar þakkir hljóma,
er hafið gullnu sigurmarki náð:
í hálfrar aldar aftanroðans ljóma
nú endurskína samtengd verk og ráð.

þótt lækki sól í svölum tímans heimi,
hin sæla von oss helgar þennan fund,
að haustið blíða blómin ykkar geymi,
er breiði lauf að hinztu dagsins stund.

---

## Davíð J. Guðmundsson og Sigurbjörg Jónsdóttir Sigurðsson.

Kom þú, bjarta, blíða Freyja,
blessa þessa stund,
sjá hvar tengja sveinn og meyja
saman hug og mund;
stjörnur himins, stráið ljóma,
stillið, dísir, lag,
látið vorsins vinarhljóma
vígja merkisdag.

Hvað er lukka lands og þjóða,
lífsins traust og dygð?
Það er konan göfga, góða,
geisluð móður-trygð;
hún er fyrst og fremst í öllu,
fáguð von og ást;
gerir minsta hús að höllu,
hjálp, sem aldrei brást.

Kæru brúðhjón, krýnið daginn
kærleiksyl og trygð,
verði frjófgur heima haginn,
heill og styrkur bygð;
þar sem ást og eining lifir,
ekkert grandað fær,
vetrarböli öllu yfir
eilíft sumar hlær.

Hér er ykkar — fyr sem fundu
feður — heima láð,
lifðu marga stranga stundu
studdir von og dáð.
Eflið haginn, byggið bæinn
blíð í trygð og sátt;
stafið geislum stunda sæinn,
stefnið rétt og hátt.

Látum tímans kall oss kenna
kærleiksverk og mál;
signum gleði-blys er brenna
björt við þessa skál.
Friðarsunna hlý í heiði
helgi sæld og þraut,
ungu hjónin lánið leiði
langa, fræga braut.

## Canada.

Ó, Canada, á bernskulífsins braut,
þú bjarta, djúpa, hlýja fósturskaut,
frá þínu hjarta þrumar tímans mál,
með þrótt og fjör og von í hverja sál.
Og hvar er styrk og stærri hvöt að fá,
en strauminn þínum nægtalindum frá?
Og hvar er land, sem lofar fegri tíð,
og launar betur æfidagsins stríð?

Þó sértu ung við alheims sögubrunn,
er öllum heimi risa-för þín kunn;
hver dagleið þín er heillar aldar haf
til hinna, sem að auðnan minna gaf.
Því lagði margur leið að þinni strönd,
og ljúft þú öllum réttir vinarhönd;
og hver sem gaf þér mátt sinn, hug og mál,
við móðurborð ei sat að tómri skál.

Þitt skaut oss hlúði langa, farna leið
og lýsti vonum frumherjanna skeið.
Vér hétum því í hverri, sókn og vörn,
að hlýða þér sem trúlynd fósturbörn.

Vort lán og stríð á skjöldinn þinn er skráð,
við skjólið þitt er vorra niðja ráð.
Og því skal ávalt unna þér af dygð,
þú átt vor hjörtu, menning, dáð og trygð.

Með íslenzkt þrek og þol í sál og hönd
í þínu frelsi numin voru lönd.
Nú breiðir laufin frumbyggjanna fræ,
í frjórri sveit og reisulegum bæ.
Af feðra jörð vér fluttum dýran sjóð,
hið forna, göfga, trygga víkings blóð.
Það erfðafé við alda dögg og sól
sé aðalsmerki þínum veldisstól.

## Lárentína M. Markússon.

(Eiginkona höfundarins.)

Lát hörpu minnar hljóma dýpstu slög,
þú, herra lífs og dauðarúmsins kalda,
er setur eilíf, órjúfandi lög,
þar allir verða sína skuld að gjalda.

Ó, kona, móðir, hússins ljós og hlíf,
þú hlauzt að falla, þegar drottinn vildi;
já, nú er brotið þetta veika líf,
en þögull dauðinn heldur sigurskildi.

Hver metur það, sem göfug kona gaf
og gerði, þar er mannsins dýpsti sjóður?
Hver mælir kærleiks himindjúpa haf
frá hjartarótum guðelskandi móður?

Ó! hjartans víf, þú varst svo trú og hrein,
með viljans kraft að græða alt og laga,
og brjóstið hlýtt að bæta þjáðra mein,
er blómum krýndi alla þína daga.

Þín móðurást var eilíf himins gjöf,
með ódauðleikans geislaskinið bjarta,

er sigrar lífsins sár og tár og gröf,
og signir ljósum æskumannsins hjarta.

Þú gættir margs, en mæltir jafnan fátt,
og mældir leið í trausti guðs og skjóli;
þér var ei gjarnt að hreykja sæti hátt,
en heilög dygðin sat á veldisstóli.

Já, þú varst tállaus, trygg og sönn og hrein,
með táp og þrá að sinna dagsins kröfum;
í gegnum lífsins gleði, stríð og mein
er göfug minning rituð helgum stöfum.

Þér helga börnin blíð og fögur tár,
hin bezta gjöf er horfin þeirra sjónum;
en móðurdygðin lifir eilíf ár
með ást og þökk í dýpstu hjartans tónum.

Ó, hvíl í friði, þúsund þakkar tár
á þínu leiði helgast minning kærri.
Þitt vinarmál um liðin æfi ár
nú endurhljómar lífsins vinning stærri.

~~Þú barst með stilling beiskju lífs og neyð,~~
í blíðri von, þá sólin tók að lækka.
Sú tilraun mín að létta þína leið,
er ljósið hæsta, þegar skýin stækka.

Hver geisli, sem að lýsti stundar stig,
er stöðug bending heims á tæpu miði.
Þú gefur, tekur, guð, eg beygi mig,
í gæsku þinnar trausti, von og friði.

---

## Philip S. Markússon.

(Sonur höfundarins.)

Í hjartans þrenging minn hörpustreng
eg hreyfi, þó dimmi leið:
Því prúðari enginn átti dreng
um æskunnar bjarta skeið.
Á liðinni stund hans lánað pund
var lífs míns unun og skjól.
Nú ógnar mér húm, því autt er það rúm,
hvar áður mér brosti sól.

---

Hví er, sonur, alt í einu
orðið hljótt og slitin þáttur?
Þar sem áður geislinn glóði,
grúfir dauðans húm og eyðing.
Stormi hristur stend eg, nístur
stáli beittu harms og ótta.
Þú ert farinn frá mér, kæri
Philip minn, og skeiðið runnið.

Aldrei fyr eg særðist sári
svona djúpu. Guð, eg hrópa:
Ljúfi faðir lífs og dauða,
lýs mitt hjarta þinni birtu..
Yfir bylji harms og helju
hugans lyftu trúarkrafti,
svo eg læri böl að bera,
beygja mig að þínum lögum.

Grimm er sorgin, gröf þig byrgir,
göfgi vinur, prúði sonur.
Huggun ein er harmi mínum:
hreinn að velli ertu fallinn.
Eilíf heldur æðsta gildi
ástin björt í tryggu hjarta,
sem að háll og háður spilling
heimur gat ei frá þér slitið.

Veg þinn prúður gekstu glaður,
gleymdir aldrei þinni skyldu;
hjá þér ungum lýsti löngun,
lífs þíns hegðan prýða dygðum.
Hví var þér á æsku-árum
æfitöf ei lengri gefin?
Okkar viti er sú gáta
ekki skilin, — spekin dulin.

Þú ert, sonur sæll til vina
svifinn yfir stundahafið;
ekkert þvingar, friður fenginn
faðmar þig á ljóssins vegum.
Brautin fögur fárra daga
fljótt var enduð. Lögin standa.
Farðu vel til sólarsala.
Saman leiðir koma bráðum.

## Filipía Hannesdóttir.

(Móðir höfundarins.)

Kom þú, blíða, bjarta
blóm úr æskulund,
hugur mál og hjarta
helgi þessa stund.
Lágt við móður leiði
ljómar gengin braut,
sigur sól í heiði
signir tár og þraut.

Eg skal byrja braginn
barn þar fyrst eg stóð,
vorið vermdi daginn
vonar-helgri glóð.
Hvar var hjálpin næsta,
huggun, traust og skjól,
líkn og ljósið stærsta,
lífsins gleðisól?

Það var minnar móður
mjúka, hlýja skaut,
helgur sálar sjóður,
sigurvopn í þraut.
Ört þó árin streymi,
atvik, sæld og hrygð,
hljómar ofar heimi
heilög ást og dygð.

Lít eg liðin árin,
langa farna braut,
gleði, sorg og sárin,
sigur, tap og þraut.
Brosir myndin bjarta, —
bezta drottins gjöf, —
móður hönd og hjarta
helgar líf og gröf.

Glöð með glöðum varstu,
göfg og trygg á braut,
þreyttra byrði barstu,
blíð í hverri þraut.
Oft var örðugt sporið,
aldrei dimt í sál,
sama varma vorið,
viðkvæm lund og mál.

Höfðingsgeð og hjarta
hlýtt þú barst á jörð;
lengi ljós þitt bjarta
lýsti Skagafjörð.
Þar var starfið stærsta,
stundin sigurblíð,
manndóms-markið hæsta,
missir, lán og stríð.

Hjá þér hlaut inn snauði
huggun marga stund;
hærra heimsins auði
hófst þú sál og mund.
Þeir, sem þerra tárin,
þjáðum létta raun,
fá við farin árin
fögur sigurlaun.

Börn og frændur falla
fram í þakkargjörð
fyrir ástúð alla —
árin þín á jörð;
fyrir andans auðinn,
arf, sem vísar leið,
þegar dapur dauðinn
dagsins endar skeið.

Hvíl, þín braut er búin. —
Burt með hrygð og tár!
Launað traust og trúin,
talið sérhvert ár.
Fögrum vinafundi
friðarsunna skín;
hlý að hinzta blundi
helgast minning þín.

## Rögnvaldur Björnsson

frá Réttarholti.

Í anda yfir hafið
eg eygi leiðið þitt,
minn óð fær ekkert tafið
við æskuskeiðið mitt;
þar fyrst á okkar fundum
oss fjör og yndi hló,
með sólarglóð á sundum
og söng í berjamó.

Við lásum ljóð og sögur
um lands vors hopp og þraut,
hvar margur gildur mögur
til manndóms ruddi braut.
Hvert augnablik var óður
með ástarþrunginn klið,
í skauti mærrar móður
við morgundagsins frið.

Í faðmi blárra fjalla
um frjálsan, heiðan dag,
með ljóð um hlíð og hjalla
og hljómþungt fossa lag,

þú festir hugann heima
að hefja þína bygð,
og ei var unt að geyma
þér æðri sonar trygð.

En æskuárin líða
sem elfa fram í haf;
svo kemur kall að stríða
með kraft, sem drottinn gaf.
Þinn hlut þú hlauzt að bera
á hörðum reynslu stig;
en takmark, trúr að vera,
var táp, sem leiddi þig.

Af öllum virtur varstu
með vinhlý orð og ráð
og marga byrði barstu
af bróðurhug og dáð.
Með hreint og göfugt hjarta
þú helgan græddir sjóð,
við andans útsýn bjarta
og ást á land og þjóð.

Þér hörð var hinzta stundin
og haustið dimt og kalt,
en traust, og ljúfa lundin
sér lýsti gegnum alt,

unz bleikur dauðinn breiddi
sinn blíða frið á þig,
og sál til ljóssins leiddi
á lífsins hærra stig.

Nú syrgir sveitin bjarta
við sonar leiði hljótt,
er henni gaf sitt hjarta
og hönd og andans þrótt.
Í bljúgum brjóstum vina
þó blæði sorgar und,
þeir eiga eilífðina
og annan gleðifund.

Á blíðan bernskuhaga
eg breiði kveðjuljóð,
og þakka þína daga
í þjóðar vorrar sjóð.
En þeir, sem háðu heima
við hlið þér sæld og neyð,
í ást og göfgi geyma
þitt gengið æfiskeið.

## Matthías Jochumsson.

Meðan kyndir eld við óð
íslenzkt mál og saga,
Matthíasar lista-ljóð
lifa alla daga.

Matthías, sem æðstan átti
óðar tón á móður-fróni,
hvílir fölur. Fjöll og dalir,
fell og vellir tárum hella.
Æfistarfið lýðfrægt lifir:
Ljóssins rún í Bragatúnum.
Enginn fyrri svanur söng oss
sjötíu ár á tímans bárum.

---

"Ó, guð vors lands" nú hnýpir gígjan hljóð,
sem hæst og dýpst af strengjum knúði ljóð,
svo hrein og beitt og björt og snjöll og sterk,
í Braga heimi drottins kraftaverk. —
Og ljóðin sungu afl í hverja æð
með andans flug af lífsins sjónarhæð.

Ó, krjúp, mín þjóð, við bragmæringsins beð
í bæn og þökk: hvað oss var mikið léð.
Í anda hans, sem hvílir fölur nár,
bjó hjartarót vors lands með sæld og tár,
og ljóðin sungu líf og fjör í þjóð,
— en lagið stilti norrænt hetjublóð.

"Ó guð vors lands", í minning þessa manns
þinn máttur skín á stóli kærleikans.
Vér kyssum hrærðir klæða þinna fald; —
í kvæðum hans vér sjáum ljóssins vald,
er sviftir öllu andans húmi braut,
svo opið brosir himins dýrðarskaut.

Hjá Mímisbrunni björt var andans sjón,
af bragmæringum náði 'ann hæsta tón,
og enginn betur matti feðramál,
við móðurhjartað spann 'ann gull og stál:
og ljóðin kváðu ljós og trú í drótt,
með lífsins yl og sigur, von og þrótt.

---

Beyg hjarta þitt, Ísland með elsku og prís,
— þér aldrei gafst kærari mögur; —
og lær þú hans óð, þessi ódáins ljóð —
það er eilífðin brosandi fögur.

Í lifandi minning um ljóðskörung þinn
geym ljósið, sem hjá þér hann vakti;
hvert örlagasporið, þinn vetur og vor
hann vígði með óðsnild og rakti.

Hann söng vorri þjóð djúp og lifandi ljóð,
þar til lyktuðu dagarnir taldir,

og hann gaf oss í arf andans guðlega starf,
sem að geymist um komandi aldir.

Í álfunum tveimur með harmblíðan hreim
vor hjörtu sig beygja af lotning:
því aldrei kvað mögur svo ljósauðug lög
á ljóðstreng þinn, fjallanna drotning.

---

Ó, ljóssins skáld, ó, skáld vors ljóss!
þú skrifaðir ódáins, ódáins rún:
Það er himneskur sjóður í hjartnanna reit
og vort hámark um ljóðsnildar tún.
Af lýðfrægu starfi skín ljós yfir gröf,
sem lýsir með vermandi blæ;
það dýrlega "smáblóm" við daganna töf,
sem dafnar á grjóti og snæ.
:,:Ljóð þín, guðs vors gjöf,:,:
slá eilífa tóna um aldanna höf,
frá eyjunni norður í sæ.

---

## Minningarljóð.

Dr. séra Jón Bjarnason.

Nú drúpir þjóð, en dauðinn klæði breiðir
á drottins þjón, hér skilja tímans leiðir;
í helgri lotning klukkur allar klingja
frá kirkjuturnum Vestur-Íslendinga.

Í framandi landi eg lít mína þjóð,
sem leitar að bjartari dögum;
í æðunum fossar hið fornhelga blóð,
úr feðranna kynsælu högum.
En margt er á frumbýlings leiðinni ljón,
sem letja vill hugann og þorið;
þá reynir á göfgi og guðlega sjón,
svo glatist ei trúin á vorið.

En frumbyggja-hópurinn átti þar einn,
sem offraði hendi og tungu
og gekk fram í sókninni hugstór og hreinn,
svo hjartfólginn þjóðlífi ungu.
Hann kendi og fræddi með lifandi lund,
er lýsti hvert fátæklings hreysi,
og sáði þeim vísi á vestræna grund,
sem vex, þó að stormarnir geisi.

Frá íslenzku hjarta með einurð og þor
þín eldheita kenning var sprottin;
já, hreinskilni, dygðin og drengskapar spor
um dagana báru þess vottinn.
Á andlegum velli þú veifaðir hjör
af víðtækri þekking og huga,
og hopaðir aldrei í hólmgöngu-för
við hámark að stríða og duga.

Þú virtir og elskaðir móðurlands mál,
þar máttur og fegurðin glóði,
með viðkvæma, hrausta og heilbrigða sál
úr heilögum ætfeðra sjóði.
Vér eigum það letur, sem lofar þitt nafn
og lifir með íslenzkum fræðum
í þakklátri minning, við sögunnar safn,
á sólríkum menningarhæðum.

Sjá kvöldroðinn vígir hið veglega starf;
til viðar er lífsröðull genginn,
en þjóðin fær söguna, andlegan arf,
þann auð, sem með stríði var fenginn.
En drotni sé þökk fyrir dýrmæta gjöf;
hver dygð, sem að ljómar á jörðu,
er sannleikans bending á bjartari höf,
sem ber oss í straumunum hörðu.

Á andlegu starfsviði lifir þín leið,
það ljós er oss hvöt til að stríða;
og minningin geymist í hjörtunum heið,
við háreysti byltinga tíða.
Frá kirkjunnar hástóli hljómar þín dygð
til himins með eilífu gjöldin;
svo vítt, sem að íslenzkir eiga hér bygð,
þín orð eru rituð á skjöldinn.

---

## Séra Friðrik J. Bergmann.

---

Drottinn allra alda,
alheimsljósið bjarta,
allir geislar eru
æð frá þínu hjarta.
Þú ert aflið eilíft
æðst í sólartjaldi,
lögin lífs og dauða
lúta þínu valdi.

---

Dökkum slæðum frónskar sveitir falda,
Friðrik Bergmann hvílir þögull nár.
Ströng í brjóstum stynur sorgaralda,
stór er skaðinn, hópur okkar smár.
Yfir hafið, heim til móðurfjalla
harmafregnin snertir viðkvæm bönd;
hvar sem íslenzk orð af vörum falla,
eru tár og húm um munans lönd.

Vorrar þjóðar vorsins morgun ljómi
varstu hér á nýrri fósturgrund,
hreinn og bjartur skjöldur þinn og skjómi
skein í hverri raun um æfistund.
Fremst í okkar fylking hófstu merki,
fjör og göfgi vermdu hverja taug.
Upp og fram að frægu dagsins verki
fögur benti tímans mentalaug.

Dáð og þor úr ættar vorrar æðum
inst frá þínu hjartans djúpi skein;
hugtök snjöll í riti jafnt og ræðum
reist þér hafa fríðan bautastein.
Fáir móður-málsins hljóma skærri,
mentagígju strengjum knúðu frá;
víðsýnn andi eftir stigum hærri
ætíð brann af helgri sannleiksþrá.

Jafnt við skin og skúr á tímans vogum
skorti hvorki viljans þrótt né dug;
andi þinn frá árdags vafurlogum
yfir húmið sendi gneistaflug.
Mark þitt var að lyfta sjón og leita,
ljósið þráði sálin menta-gjörn;
aldrei þótti heiglum hent að beita
hjör á móti þér í sókn og vörn.

Mest er stundum minst að dómi fjöldans,
mörg því villan glepur okkur sýn.
Maklegt gildi manns við æfikvöld hans
mælt er fyrst þar leiðin endur-skín;
því er einatt þungt og blandað tárum
þeirra líf, er hjá oss ruddu braut,
sóttu fram og breiddu björt með árum
blóm í lands og þjóðar sinnar skaut.

Þökk sé guði, þú varst andans hetja,
þjóðfélagsins styrkur, hvöt og ljós,
fús að lyfta, leiða, benda, hvetja,
lífga geislum hverja veika rós.
Vorsins óður var þitt mál og saga,
verk þín ljóma okkar fræðasafn;
fram til hærri, heiðríkari daga
hugans sjónum bendir æ þitt nafn.

## Benedikt Gröndal.

1907.

Harpan þegir, hróðrardísin grætur,
húm og dauði faðma kaldan ná;
Gröndal syrgja synir Fróns og dætur,
signa tárum fölva öldungs brá.
Dýrlegt kvöld að dagsins loknu stríði
dreifir geislum yfir lönd og höf;
æfistarfið endurskin hjá lýði,
ódauðleikans rúnum fágar gröf.

Hvar er gjaldið? Gröndals óður lifir,
grafinn djúpt á Íslands söguskjöld.
Alt hið göfga, gröf og dauða yfir,
geymist, þó að hverfi stund og öld.
Vel og lengi lífs í stóru verki
listaskáldið sýndi fjör og dug;
til að lyfta landsins heiðursmerki
ljóða-svanur þreytti andans flug.

Andinn frjáls, með fjör og snild í kvæði,
flaug um lífsins hulda regin-geim.
Skáldið söng um foldu, loft og flæði,
feigðartíð og vorsins sæluhreim.

Aldrei nokkur nam og skildi betur
norrænt mál á kærri fóstursIóð,
enginn færði listasnjalt í letur
ljóð, er heitar unni sinni þjóð.

Listamaður, málsnillingur hæsti,
minning þín á vörum hljómar snjalt;
þú varst lands og þjóðar vinur stærsti;
þökk og heiður fyrir starfið alt.
Meðan tímans sterku hrannir streyma,
strengir hljóma, glóir listasafn;
frónskir niðjar fögru verkin geyma,
fræðadísir skrifa Gröndals nafn.

---

## Mrs. Th. Thorvaldsson.

(Fyrir hönd eiginmanns hinnar látnu.)

---

Með lotning í anda við legstaðinn þinn
eg lít yfir veginn til baka,
og alt verður bjartara, fögnuð eg finn,
þar fegurstu draumarnir vaka;
og himininn andar þeim unaðar blæ,
sem ylar mér kvöldið á tímanna sæ.

Í stríðu sem blíðu með staðfastri lund
þú starfaðir einbeittum vilja;
þín ástúð og göfgi á gefinni stund,
er geislinn, þar vegirnir skilja;
sú minning er eilíf um ódáins höf,
og aflið með sigur við dauða og gröf.

Við daganna skyldur þín mannúð og mál
bar merkið um heilagar dygðir,
og börnunum okkar af auðugri sál
þú andlega grundvöllinn bygðir;
því elskandi móðir er æskunnar sól
með eldinn, sem brennur frá kærleikans stól.

Hver einasti dagur á liðinni leið
af lánaðri samveru þinni,
var sigur og gæfa, í sælu og neyð,
og sólskinið æfinni minni.
Nú þakka eg hrærður, en gjaldið er greitt
frá gjafarans hendi, þar valdið er eitt.

Sem hrímgaður meiður á húmklæddri grund
eg hnýpi við líðandi strauminn;
en vonin og trúin er ljósið í lund,
með líf yfir tárin og glauminn;
og því vil eg hugglaður hneigja mig rótt
og helga þér daginn að síðustu nótt.

## Kafteinn Stefán Sigurðsson.

Slyngum fækkar fölknárungum,
fyr sem ruddu braut, og studdu,
manndóm jafnan sýndu sannan,
segulstál í hug og máli;
Þéttir ýtur afli beittu,
ölduróti tímans móti,
traustir þar til böndin brustu,
blundinn hreptu, tökum sleptu.

Skörungs býli sveipast sáru
sorgar húmi, autt er rúmið;
fallinn höldur, fregnin öllum
flytur hrygð, nú drúpir bygðin.
Líf er þrotið, enduð æfin,
andans heimur minning geymir;
sólu fágað stendur stílað
Stefáns nafn í landnámssafni.

Svo hraustur og djarfur á daganna braut
og dugandi jafnan í sérhverri þraut,
með brennandi fjöri þú barðist.
Og það stóð á sama hvort sól eða hret
þig sótti, þú hopaðir aldrei um fet,
en beittir í vindinn og varðist.

En nú hvílir fleyið við síðasta sand
og sæfarinn ötull er kominn á land
úr ferð yfir freyðandi boða.
Á norræna svipinn með bliknaða brá,
sem blossandi eldmóður tindraði frá,
slær heilögum hreystinnar roða.

Já, þeir eru margir, sem minnast þín nú,
því mannúð og hluttekning auðsýndir þú
á frumárum bygðar og bræðra;
að fátæklings kofanum komstu með dáð
af kærleik, með vermandi hendur og ráð
í bjargskorti barna og mæðra.

Og hvar sem að glaumur hjá góðvinum bjó,
og gleðin og unaður strengina sló,
þá varstu þar allur í anda.
Með þrekið og fjörið, og ljóselska lund,
þú lézt okkur finna á sérhverri stund
þín áhrif til orða og handa.

Nú syrgir þín brúður, þinn sigur og ljós,
það sumar með eilífa kærleikans rós,
í blíðu og stríðu sem brosti.
Vér beygjum vor höfuð til hennar á leið,
því hún var þinn engill um stundanna skeið,
með bjargfasta kvennlega kosti.

Þú studidr vort félag með framkvæmdargeð,
þitt fylgi var sérhverju málefni léð,
er stefndi til þjóðlífsins þarfa.
Vér finnum í hóp vorn að höggvið er skarð,
en höfum að launum þann dýrmæta arð,
þitt dæmi, að duga og starfa.

---

## Hólmfríður Húnford.

(1908. — Í nafni föður hennar.)

Á haustkvöldi lífsins með þverrandi þrótt
eg þreyttur í stríði mig beygi
við leiði þitt, Fríða, svo húmkalt og hljótt,
sem helgast af umliðnum degi.

Þín braut er hér gengin, hið blómríka vor
með brosið frá tuttugu árum;
í göfugri minning þess gróandi spor
nú glóa af þakklætistárum.

Þú dóst meðan æfinnar árdagur skein,
það eitt er mér huggun og gleði,
þú gekst héðan burtu svo göfug og hrein
til guðs, sem að dögunum réði.

Þitt dæmi var fagurt, um flughraða stund
þú foreldrum byrðina léttir,
og öllu því veika, með viðkvæma lund,
þú vermandi hendina réttir.

Að leita þess sanna er hugsjónin há,
sem heimur ei máir af skildi;
sú heilaga köllun er himninum frá
og hefir sitt eilífa gildi.

Hvað stoðar sá auður, sem eyðist í mold?
Þeir afkasta smáu hans vinir,
því miljóna eigandinn fellur að fold
eins fölur og snauður sem hinir.

Þú græddir þann sjóð—meðan lífið var léð—
sem ljómar, þó dagarnir streymi,
og gerir svo dýrlegan dáinna beð,
þá dimmir í stundanna heimi.

Eg minnist þín, dóttir, það æðsta þú átt,
sem inst er á hjarta mitt grafið;
þú kveiktir það ljós, sem að lyftir mér hátt
og lýsir frá strönd yfir hafið.

Eg syrgi þig, Fríða, unz dagurinn dvín
og dauðinn mig leysir úr böndum;
þá finnumst við aftur, þar fögnuður skín,
á friðarins himnesku löndum.

---

## Edvald Elart Johnson.

(1920. — í nafni móðurinnar.)

---

Eg stari hljóð með trega tár
á tímans ólgu haf,
og les þar farna leið um ár,
er lífsins faðir gaf.

Þar sé eg þig, minn sonur kær,
þó sveipi holdið gröf,
í ljúfri minning ljósi slær
á lífs míns beztu gjöf.

Ó, hvað er stærra lán á leið
en ljúfra vina ást?
Þar sjáum vér í sæld og neyð,
þá sól, er aldrei brást.

Frá morgni lífs að bana-blund
þú birtir mína leið,

með sonar hlýja hönd og lund
um hraðfleygt æfiskeið.

Þú sýndir festu, táp og trygð
um tæpt en fagurt vor.
Eg geymi þögul þína dygð
og þakka farin spor.

Þótt húmi leið og hnígi rós
í hljóðan feigðar blund,
þín endurminning er mitt ljós
að efstu dagsins stund.

Frá sorgadal til sælulands
við sjónum brosir skeið,
eg bíð í von og bæn til hans,
er blessar tár og neyð.

## Magnús lögmaður Brynjólfsson.

Hví falla blómin fríð og stór að velli
og fölna, þegar sólin gyllir braut,
en stráin bleiku blakta, kvalin elli,
og beygjast veik af stormi heims og þraut?
Vér stöndum hræddir, horfum út í bláinn
af hálum ís á kalda dauðans vök;
vor sjón er döpur, söm er allra þráin,
að sjá og skilja lífsins huldu rök.

Þú stóðst og leizt frá lífsins sjónarhæðum
á landið, sem þér ungum veitti skjól,
með norrænt þrek og eld í hraustum æðum
og æskuvonir krýndar morgunsól;
sem Héðinn áður frár á Markarfljóti
með fránan hjör að Þráinn rendi skeið,
þú gekst á hólminn hættum öllum móti
og horfðir beint að marki, sett á leið.

Þú stefndir hátt og hræddist enga boða,
með hjarta stórt og göfga víkingslund;
þér var svo ljúft í ljósi alt að skoða
og létta bræðrum hverja þrautastund;
Þú reyndist vinur dyggur alla daga,
þar drengskapar og ráða margur naut;

og aldrei þótti heiglum hent að draga
úr hendi þér á samkepninnar braut.

Um farinn veg þú varst oss hvöt og styrkur,
með von og traust og skarpa andans sjón,
þú hraktir burtu hræsni, fals og myrkur
og hjátrú blinda — lands og þjóðar tjón.
Í fararbroddi barst þú glæstan vigur
með beittri egg í hverri sókn og vörn;
og stórum, smáum, starfið þitt varð sigur,
þar stýrði lundin hlý og framagjörn.

Nú hnýpir bygð, þars brosti hátt þitt merki,
og beygðir vinir fella tárin heit;
þú reyndist æ, í orði, ráði, verki
svo eðallyndur vættur þinni sveit;
og því er sárt að sjá á miðju skeiði
til sævar hniginn lífsins röðul þinn,
er skein svo fagurt, skært og blítt í heiði,
og skreytti geislum allan ferilinn.

Vér söknum þín, en þökkum djúpt af hjarta,
að þér var lánað fagurt pund á braut;
Af glaðri lund þú breiddir geisla bjarta
og blóm á leið, sem aldrei fella skraut.

En hvað er stundar vegferð, æska, elli?
— hinn eini sami mælir tímans skeið —
og hví skal gráta góðan dreng að velli,
því göfug minning bendir hærri leið.

---

## Pétur Björnsson.

(Fyrir hönd Margrétar Björnsson.)

Þó að þögul sé gröfin,
út við eilífðar höfin
hljómar óður frá ástvina sál.
Stutt er leiðin að ströndum,
líf í ljósgjafans höndum
bendir sjón yfir söknuð og tál.

---

Af haustsins leið ég lít til baka
og les þar mína förnu braut,
í hjartans grunni hljómar vaka
um horfið stunda lán og þraut.
Þar sé eg öflin atvikanna
með umbreytinga reginslög,
en yfir vegum veikra manna
er vald með hulið ráð og lög.

Hvað fæ eg sagt, eg má ei mögla,
því mannsins tíð er eilíft ráð,
og jafnvel geigvæn gröfin þögla
er gjöf, sem stafar drottins náð.
Mér ber að þakka skin og skugga
í skjóli hans, er gaf og tók,
því alt er mælt, það mig skal hugga
í minni lífsins stundabók.

Nú ert þú, vinur, hulinn húmi,
er hönd mér gafst um liðna stund,
með söknuð yfir auðu rúmi
þín endurminning vermir lund.
Þú gekst með dygð að dagsins verki
og deildir ei um lífsins kjör,
en sýndir glögt þau göfgu merki,
sem geisla hverja reynsluför.

Þú geymdir traust í hreinu hjarta
til herrans, sem að stýrir braut,
og gaf oss lífsins geisla bjarta
í gegnum dagsins hret og þraut.
Þú lézt þér nægja glöðu geði
hvern gefinn skamt í þinni stétt.
Sú löngun hönd og huga réði,
að halda velli trútt og rétt.

Far vel, eg kem og sé þig síðar,
þó sambúð slíti tímans hönd;
eg heyri raddir himinblíðar
með helgan kraft af fjarri strönd.
Á meðan æfi-óður kveður
um atvik liðin, hlý og köld,
á haustsins degi hugann gleður,
að horfa fram á síðsta kvöld.

---

## Thorsteinn Thorarinsson.

Þú fylgdir oss um langa leið
og lýstir gengið æfiskeið
af björtu bróðurþeli;
við minninganna hlýjan hljóm
frá hljóðu leiði skína blóm,
þó holdið foldin feli.

Að verma geislum gefna leið
og gleðja þann, sem líður neyð,
er öllum auði stærra.
Þá andar hinzti aftan blær
og eilíf sólin brosir skær
við lífið hafið hærra.

Við sérhvert gott og göfugt mál
þú gafst oss fylgi, laust við tál
og varst oss vinur mætur;
en brúður þín, sem misti mest
og matti þína kosti bezt,
nú hnípir hljóð og grætur.

Að eiga hvergi óvin neinn
og enda daginn trúr og hreinn,
það helgar heimferðina.
Því vil eg leggja ljóðið mitt
í lotning yfir rúmið þitt,
með kveðju kærra vina.

---

## Kristjana J. Hördal.

(Fyrir hönd eiginmanns hinnar látnu.)

Eg horfi fram á sollinn tímans sæ,
þar sorg og gleði skifta völtum tíðum,
því nú er húm og hrygð í mínum bæ
og hnigin sól, er stráði geislum blíðum.

Og sólin þessi var mitt kæra víf,
sem vígði hús mitt björtu kærleiksþeli,
af móður dygð, sem lýsir alt vort líf
og lifir, þó að gröfin holdið feli.

Þú, kæra víf, sem varst mín stoð á leið
með von og trú í dagsins raun að stríða,
þín blíða minning mýkir tár og neyð
á meðan haustsins æfidagar líða.

Eg hryggur lít á hússins auða rúm,
þín hönd er stirð og þögnuð röddin blíða.
Hvað getum vér, þá geisar dauðans húm?
því guð er valdið, sem oss ber að hlýða.

Er nokkur dýpri hrygð um lífsins höf,
sem hærra leiðir anda vorn og tungu,
en þegar mæta móður byrgir gröf,
sem mjúkum faðmi vafði blómin ungu.

Ó, hjartans vina, heimi svifin frá,
það huggar mig, að sælli koma fundir,
eg veit þú blessar börnin okkar smá
í bæn til hans, sem gefur æfistundir.

Ó, kona, móðir, þér sé hjartans þökk,
frá þínu starfi eilíf blómin skína;
á leiði þitt eg ljóð mín breiði klökk
og lofa drottinn fyrir æfi þína.

## Gunnsteinn Eyjólfsson.

Nú er gullinn hörpustrengur hljóður,
heilög kyrð með eilíf dagsins gjöld;
gildi manns, hinn mikli, dýri sjóður,
mældur bak við heimsins skugga-tjöld.
Minning kær og hlý og göfug hljómar
hjörtum vina gegn um sorg og tár;
unnið stunda-starfið endurljómar,
stríð og sigur hans, er liggur nár.

Þú ert, Gunnsteinn, fallinn lágt að foldu,
fölur vafinn dauðans kalda hjúp.
Víf og börnin vökva tárum moldu,
víst er skaðinn stór og sorgin djúp.
Bygðin, sem frá bernsku þinnar degi
ber og geymir farin æfispor,
sá þig einatt velja nýja vegi,
vinna stórt með hugans afl og þor.

Þér var gefinn gullinn lífsins sjóður:
gáfna-snild með andans vængjaflug;
heitt þú unnir máli þinnar móður,
menning sannri, frelsi, list og dug.
Mark þitt var að lifta hug og leita,
læra, skilja tímans rödd og mál;

þín var jafnan þráin sterka, heita,
þetta háa, laust við glys og tál.

Djarft þú beittir fögru andans fleyi
fram um lífsins boða-þungu dröfn;
stærra, hærra stig með hverjum degi
starf þitt sýndi; — nú er fengin höfn.
Hvíldu rótt, og þúsund þakkar-tárum
þínir vinir signa kalda gröf,
lofa fyrir ljós, er skein á bárum,
líf þitt — hina miklu drottins gjöf.

Hnípin Fljótsbygð harmar liðna daga,
húmi sveipast grundir Unalands,
þar sem vinir, veglegt starf og saga
vefa þínu hljóða leiði krans;
hlýtt í minning helgur ómar strengur,
hafinn yfir söknuð, tár og þraut.
Ástarþökk, að þú varst nýtur drengur
þína förnu lífsins sigurbraut.

## Elmo Crawston.

(1923. — í nafni móðurinnar.)

Eg felli tár og horfi hljóð
á heimsins regin-straum,
og haustið kveður harmaljóð
með horfinn sæludraum.
Eg syrgi einkasoninn minn,
er sefur falinn mold.
Nú finst mér dapur dagurinn
á dauðans köldu fold.

Þitt æskulíf var eins og blóm
við árdags sólarglóð,
þá alt er vakið vonarhljóm
með vorsins sælu óð.
Þú áttir hjarta hlýtt og blítt
og hreina, glaða sál,
um skeiðið hraða, skrauti prýtt,
er skygði ekkert tál.

Nú stend eg ein á bleikri braut
með biturt hjartasár,
en guð er lífsins skjól og skaut,
hann skilur öll vor tár;

eg þakka honum góða gjöf,
þitt gleðiríka vor —
þó döpur, köld og grimm sé gröf
— það geislar öll mín spor.

Með sorg í hjarta, sonur kær,
eg signi leiðið þitt.
Að vetri liðnum vorið grær,
þar vakir ljósið mitt.
Eg gleðst við drottins gæzkumátt,
er gleymir engri sál.
Þó öldur dauðans hrópi hátt,
er hærra lífsins mál.

---

## Mrs. Guðbjörg Sigurðsson.

(1923. — Í nafni manns hinnar látnu.)

Að þinni gröf með þökk og helgri lotning
eg þögull krýp á haustsins æfileið,
þú lífs míns sigur, ljós og hússins drotning,
sem léttir hverja dagsins þraut og neyð;
nú lít eg yfir auða rúmið kalda,
sem aldrei framar vermir höndin þín,
en bak við tjaldið ómar himins alda,
af ást og gleði runninn ferill skín.

Þá göfug kona kveður börn og maka,
að klökkum hjörtum nístir treginn sár,
en von og trúin benda sjón til baka
í bæn og lofgjörð fyrir horfin ár. —
Frá sælulandi sál þín skín oss nærri
og sorgin verður himins friðar gjöf,
því móðurástin, öllum dygðum hærri,
er eilíf sól á tímans húm og gröf.

Ó, vertu sæl, þú mæta víf, og móðir —
er manndóm sönnum krýndir alt þitt ráð;
nú hnípa vinir við þitt leiði hljóðir,
en verkin standa drottins lögum skráð. —
Eg bíð í ró að æfi minnar endi
og æðrast lítt, þó blási tímans fönn,
því alt er gott frá guðs vors náðarhendi,
og gæfan býr í hverri tárahrönn.

---

## Gísli Ólafsson.

(1909. — Fyrir hönd vina og kunningja hins látna.)

Í framandi landi þú stríddir um stund,
og starfaðir jafnan sem hetja,
og réttir oss bræðrunum mannúðar-mund,
þitt mark var að styðja og hvetja.
Í fámenna hópinum fylgi þitt traust
við fundum, og þökkum af hjarta, —
það sólgeislum krýnir hið síðasta haust,
og sýnir oss leiðina bjarta.

Þú treystir því góða og mattir hvern mann,
er miðlaði skerfinum sínum,
og vanst meðan kepnin og krafturinn brann
í karlmensku taugunum þínum.
En nú ertu fallinn og fluttur á braut
í friðsæla, eilífa rúmið.
Og dýrlegt er gjaldið við geislanna skaut, —
þar glepur ei veraldar húmið.

Þú horfðir með djörfung á streymandi stund,
og stefndir að markinu háa,
og gafst okkur dæmi með göfugri lund,
að gæta þess stóra og smáa.

Ef kallaði þörfin á hjálpandi hönd
þú heyrðir, og prýddir þitt merki,
því lífskjörin aldrei þér bundu þau bönd,
sem bönnuðu framkvæmd í verki.

Nú hnýpir sá bær, sem þú bygðir með dáð,
og brúður og dóttir þín grætur, —
en huggarinn kemur með kærleik og náð,
og kennir ,að dauðinn er sætur.
Því vonin um sigur og sambúðar tíð
í sælunnar heimkynni björtu,
er send til að létta hið stundlega stríð
og styrkja hin syrgjandi hjörtu.

Við klökkir með þakklæti kveðjum þig nú
á kvöldi, því lokið er starfi.
Að lifa með drengskap og deyja í trú,
er dæmið, sem gafst þú að arfi.
En minning þín lifir í hjörtunum hrein,
þó holdið sé gröfinni falið.
Og takmarkið sanna er eilífðin ein, —
þar alt verður reiknað og talið.

## Móðurkveðja.

(Guðmundur Daníel Guðmundsson. — 1918.)

Við biðum þess heima með brennandi þrá,
að bæinn þú lýstir um jólin.
Ef skammdegis myrkur og mótviðri slá,
er máttugri kærleikans sólin.
Og því var oss löngunin heilög og há
í heimkynnin okkar, minn son, þig að fá.

En vonin og gleðin á lífdaga leið
er leiftrandi, hverfandi bjarmi;
og svo koma élin, er skyggja vort skeið
með skerandi, blæðandi harmi.
Þá virðist oss heimurinn harður og flár
og himininn kaldur með söknuð og tár.

Já, sviplega barst mér það sorganna hljóð,
að sjúkur þú lægir á beði,
sem helör í gegnum mitt hjarta það stóð
með húmið og óttann í geði.
En sárast af öllu mig þrýsti sú þraut,
að þér var eg fjarri að lokinni braut.

En drottinn var með þér í síðustu sorg
og sál þinni lýsti til hæða;
eg grét þig af hjarta, en guð er vor borg

og græðir þau sárin er blæða.
Þá hnígur í djúpið mín hérvistar sól,
eg held með þér geislandi, endalaus jól.

---

## Ólöf Sveinsdóttir.

(1913. — Fyrir hönd Mrs. S. Sigurðsson.)

Alt er hljótt; nú hvílir þú í gröf,
hjartans móðir! lífs míns bezta gjöf;
aðeins lifa orðin þín og verk,
endurminning sigurblíð og sterk.

Sé eg enn í anda liðinn dag,
æsku minnar sól og gleðihag;
þegar fyrst eg bjó við barminn þinn,
brosið þitt var eini geislinn minn.

Hrein sem dögg á dýrri vorsins rós,
djúpt sem hafið, skær sem morgun ljós,
föst sem bjargið, eilíf, helg og há
hjarta þínu lýsti ástin frá.

Þú varst trygg, með traust á lífsins sól,
trúin gaf þér huggun, frið og skjól;
hver sem þekti þig á tímans braut,
þinna hlýju kærleiksverka naut.

Börn og vinir blessa æfiskeið;
björt er minning eftir gengna leið;
yfir leiði ljóma verkin þín,
ljós er gegnum stríð og söknuð skín.

Minning þín er minnar æfi ljós,
móðurtrygðin ódauðleikans rós.
Þó að gröfin hylji þögult hold,
hljómar sálin yfir duft og mold.

---

## Kristján K. Davidson.

(Hermaður í 223. herdeildinni, dáinn 6. maí 1916.)

---

Með æskuþrá á frjálsri fold
og fjör til starfs að hvetja,
hann vildi reynast móður-mold
sem mögur kær og hetja;
því kvaddi hann sinn heimagarð,
þar höfðu liðið árin.
Sú stundin heilög vinum varð,
er viðkvæm feldu tárin.

Hann ungur var, en þekti þó
hið þunga kall að stríða.
Með göfugt hjarta, hug og ró
við hverful föllin tíða.
En frægð og líf er lögum háð
á leiðum veikra manna,
og oft er stuttu stigi náð
í straumi framsóknanna.

Á meðan brann í brjósti þrá
að bjarga þjóð og landi,
var kallað ströndu fjarri frá
með forlög órjúfandi:
Kom, hrausti sveinn, með hetjulund
og hvíl þig nú í friði;
á jörð er lokið stuttri stund
og stefnt að hærra miði.

Við beygjum kné, því drengur dó,
sem duga bræðrum vildi;
það veitir særðum vinum fró,
með von í helgu gildi.
Nú grætur móðir svinnan svein,
en sæl er endurminning:
því gengin leiðin ljómar hrein
með lífsins sigurvinning.

## Josephina Anderson.

(1915. — Í nafni móður hinnar látnu.)

Eg man það enn, þú varst sem vor,
með vinar lund og hönd,
sem breiddi ljós og líf og þor
á leið um tímans strönd.

Með bros, er hverja bætti neyð
frá bernsku stund að gröf,
þú, dóttir, varst um dagsins skeið
mín dýrsta lífsins gjöf.

Já, alt sem gott og göfugt er,
þér guð í hjarta reit;
það lifir enn og ávöxt ber
með eilíft fyrirheit.

Þín ungu börn, sem brjóst þitt ól
nú beygir hrygðin sár,
þau mistu ljós og móðurskjól;
það mein ei græða ár.

En móðurástin helg og hrein
frá himins djúpi skín,
sem vorsins blóm á bjartri grein
og blessar verkin þín.

Hver vinur, sem að guð oss gaf,
er gimsteinn vorri sál,
sem lýsir yfir æfihaf
með eilíft geislabál.

Í hvert sinn, er eg hugsa klökk
um horfin stunda ár,
eg sendi mína þíðu þökk
til þín með kærleiks tár.

Við tímans húm í haustins blæ
eg horfi fram að gröf,
nær með þér lifa frjáls eg fæ
um fögur ljóssins höf.

---

## Lieut. M. S. Kelly.

Nú fellur margur frækinn sveinn
við bölvan hildarleik,
er lands síns kalli hlýddi hreinn
og hvergi undan veik.
Hver getur fengið fegra kvöld
og frægri sigurlaun,
en sofna rótt með sverð og skjöld
í sinnar þjóðar raun?

Þú ungur gekst á storðu stríðs
með styrk að reiða hjör,
í þarfir fósturlands og lýðs
að leggja tíð og fjör.
Þér víkingsgöfgi gaf í arf
vort gamla móðurfrón,
er ljósi brá á lífs þíns starf
og lyfti skarpri sjón.

Hjá drengja sveit þar dundi blóð
þú djarfur veittir lið
í harðri sókn á hjörva slóð
og heljar æstum klið.
Við ógn og þrautir alt um kring
með eld og stál og reyk,
sem kappi trúr með tökin slyng
þú tefldir hinzta leik.

Eitt skot! og þú varst liðið lík,
og lífsins unnin þraut,
með farin atvik frægðarrík
um fríða vorsins braut.
Á fjarri grundu gröfin þín
er geisluð ást og þökk,
og Gunnarshólmia gullið skín
í gegnum tímans mökk.

# Minningarljóð

þriggja dætra þeirra Mr. og Mrs. M. Johnson, í Winnipeg.
(í nafni móðurinnar.)

Eg átti ljúfar liljur þrjár
í lundi vonar blíðum.
Við dagsins yl og daggartár
þær dreifðu geislum fríðum.
Þar lýsti ást af instu rót
frá ódauðleikans stóli,
svo hugglöð æfihausti mót
eg horfði í þeirra skjóli.

En tímans braut er völt og veik
og vonarljósin deyja,
og því er oft við æfileik
svo örðugt stríð að heyja.
Vér fáum ekki skilið skeið,
er skapar máttur hærri,
né séð á bak við blóm á leið,
hvað böl og sorg er nærri.

Eg horfi særð, með húm í lund
á harms og dauðans foldu,
hver lilja blíð, er lýsti stund
nú liggur falin moldu.

En ein er huggun helg í þraut
þó hjartað nísti tregi:
Þær liðu hreinar heims af braut
á heiðum æskudegi.

Við dætra minna dánarbeð,
ó, drottinn! gæð mig trausti,
að líta von og lotning með
að lífsins stunda hausti.
Þá gróa hjartans svöðu sár
og sérhvert blóm er fundið,
því alt vort líf, með lán og tár,
er lögum þínum bundið.

---

## Einar Þorvaldsson Dalmann.

1913.

Óðum fækkar þeim á þingum
þar sem prýddu rúm;
flýtt er okkar frumbýlingum
fram í grafarhúm.
Gegnum stríðu stundakjörin
stafar liðið skeið;
auðveldari eftirförin
er á bættri leið.

Þeir sem fyrstir bæinn bygðu,
báru þungann dags,
vígðu reit og vaskir trygðu
veg til betri hags;
hafa niðjum langar leiðir
lýst með von og dáð;
þökk og minning blessun breiðir
bleikt á dauðans láð.

Einar Dalmann látinn liggur,
löng er gengin braut;
sannur drengur, trúr og tryggur
trausts og hylli naut;
bræður fús við böl að stoða,
bæta þjáðra kjör.
Gegnum tímans brim og boða
beitti lífsins knör.

Hygginn, þýður, hjartagóður,
hreinn og frjáls í lund,
fræði, sið og málið móður
matti alla stund;
sannleiksmarkið sigur glæsta
sá við happ og tjón;
von og trú á herrann hæsta
hugans lyfti sjón.

Börn og aldinn svanni syrgja
sannan vin á braut,
dauðans hrannir holdið byrgja
hljótt við grafar skaut.
Sálin lifir, mannsins minning
merkir hærri sýn.
Eftir sælan sigurvinning
sólin eilíf skín.

---

## Fimm ungmenni,

druknuð í Winnipegvatni 10. ágúst 1916.
(Kveðið fyrir Mrs. S. P. Guðlögsson.)

Á djúpið var haldið frá hjartkærri strönd
í hásumars brosandi leiði,
þar æskan og vonirnar héldust í hönd
á hugljúfu tímanna skeiði;
en svifhröðu bárurnar léku sitt lag
við ljósgyltu sundin um heiðskíran dag.

Frá góðvinum hljómuðu árnaðar orð,
en örlögin sátu að völdum,
þar hjartfólgin ungmenni bárust um borð
í burtu með rísandi öldum.
En brothætt er fleyið á daganna dröfn
og dulinn vor tími og síðasta höfn.

Eg gleymi því aldrei, hvað sorgin var sár
við sviplegu fregnina grimmu,
að vinina fimm hefði freyðandi sjár
þar falið í helskauti dimmu.
Það sýndi, hvað lífdaga leið vor er hál
með leiftrandi vonir og stundanna tál.

Úr djúpinu líkin þeir færðu á frón
og fundirnir helguðust tárum.
Já, aldrei á Gimli var sorglegri sjón
með söknuð á hugarins bárum;
frá syrgjendum stigu í himininn hljóð
við hjartnanna brennandi skilnaðaróð.

Nú blundar þú, sonur, með brúði við hlið,
því bjartur er ferillinn genginn.
Og dóttir, sem skilin ert vinina við
á vori með þagnaðan strenginn,
í brjósti þíns maka er blæðandi sár
og barnið þér fellir hin saklausu tár.

Með sorgir í hjarta eg horfi af strönd
á hafið og öldurnar þungu,
er gröndudu fleyi og brutu þau bönd,
sem bundu mig vinunum ungu.
En minningin fögur á eilífan óð,
sem ómar og lifir, þó gröfin sé hljóð.

## Sigurður Lawrence Martin.

(1908. — Undir nafni móðurinnar.)

Ég átti blóm með blöðin fríð,
sem brosti heiðan dag,
þar söng mér vorsins vonar tíð
sitt viðkvæmasta lag.

Og þetta ljúfa lífsins blóm
var lítill, ungur sveinn;
úr strengjum mínum hlýrri hljóm
ei hefir slegið neinn.

Alt gott og hátt og hlýtt og þítt,
svo hreint og laust við tál,
við hjarta mínu brosti blítt
frá barnsins helgu sál.

En þá kom dauðans harða hönd
með heimsins skapadóm,
svo hljóð og köld frá huldri strönd
að heimta þetta blóm.

Og ljúfi sveinninn lagðist nár,
mitt líf af harmi brann,
og engin bæn og ekkert tár
gat afturkallað hann.

Þó hrynji tár á hljóða gröf,
og hjartað vikni sært,
eg þakka fyrir góða gjöf,
þar get eg mikið lært.

Hver vinur, sem að var oss kær,
og vakti ljós í sál,
er hörpustrengur herrans skær,
þar hljómar eilíft mál.

Já, minning lifir helg og há
um hjartans vininn minn,
sem bendir dauðans dölum frá
á dýrðar bústaðinn.

Ó, verði, drottinn, vilji þinn,
sem veitir hverja gjöf,
eg veit þú geymir vininn minn,
það vefur ljósi gröf.

---

## Drengurinn í ókunna landinu.

Í ókunnu landi á æskunnar stund,
með einbeittan vilja og göfuga lund
þú gekst út í heiminn að hasla þér reit
og hefja þitt merki í framsóknar leit.

Þín móðir bjó heima á frændanna fold,
en faðirinn dáinn og hulinn í mold;
já, hér stóðst þú aleinn við freistinga flóð,
er fellir svo margan á bernskunnar slóð.

En sál þín var göfug og stefnan svo sterk,
er stafaði geislum á ráð þitt og verk,
og alstaðar vanst þú þér virðing og traust
með vonglaða svipinn og tállausa raust.

Þú vanst meðan dagur og vorsólin skein,
og vissir í fjarlægð bjó móðirin ein
með ellinnar þunga og saknaðar sár,
og sigur og stríðið um burtliðin ár.

En stundin er óviss og atvikin hörð,
sem einatt oss mæta á þessari jörð;
já, skjótt varst þú kvaddur á friðarins fund
og ferð þinni snúið í eilífan blund.

Hvað féll með þér ungum, vér fáum ei séð;
eitt frækorn af kærleik og miskunn oss léð;
sé starf okkar göfugt á stundanna leið,
er stærri vor sigur um eilífðar skeið.

Ó, þökk fyrir dæmið í drengjanna sveit:
þá dygð, sem að skreytti þinn barnæsku reit,
þó stutt væri tíðin og fótsporin fá,
er fögur þín saga og minningin há.

Nú hvílir þú aleinn á fjarlægri fold.
— Ó, fagurt er ljósið, sem skín yfir mold. —
Og móðirin grætur hinn göfuga son,
en guð fyllir syrgjendur himneskri von.

---

## Jón Jónsson.

Frá Hjarðarfelli.

Eftir langa leið á æfisjó
loks er fengin eilíf hvíld og ró;
sigurljómi, signdur himins náð,
sveipar dáins braut um tímans láð.

Víst er sælt, þá sólin gyllir kvöld,
að sofna rótt með von um dagsins gjöld,
ó, hve stórt að erfa himins lönd
eilíf, þar sem vini tengja bönd.

Ekkjan grætur eiginmann á braut,
æ sem reyndist trúr í sæld og þraut;
hjónaárin hálfan fimta tug,
herran gaf, sem veitir líf og dug.

Þessi góða, gæfuríka tíð
gaf þeim lífsins blómin mörg og fríð:
fimtán börn; nú fagna sjö af þeim
föður, sem til ljóss er genginn heim.

Sælt er þetta samfundanna land,
saman tvinnað eilíft kærleiksband!
hvað á jörð, þó hnígi vinar hold,
hold, sem verður aðeins duft og mold.

Átta börn, sem byggja tímans dal,
bljúg með tárum kveðja liðinn hal;
föður, sem að sýndi kærleiks þel,
sannur maður gegnum skin og él.

Fagurt stundarstarf hins dána manns
stóran vefur lífsins blómakrans;
hæsti auður, herrans náðargjöf,
hafinn yfir tíma, rúm og gröf.

Heill sé þér, sem þreyttir æfiskeið
þolinmóður jafnt í sæld og neyð;
kærleiksverkin, von og trúin hrein
varpa geislum á þinn bautastein.

Gott var hjartað, göfug höfðings lund;
glaður æ þú réttir vinar mund;
Hjarðarfell þá gylti sumar sól,
sveitar þinnar varstu lið og skjól.

Göfga, trúa, guði vígða sál,
gleðstu nú við lífsins sólar bál.
Hjörtu vina þúsundfalda þökk
þér til himins senda, bænar-klökk.

## Júlíus Thordarson.

(1911. — Fyrir hönd föðursins.)

Á köldu hausti blikna vonarblóm,
eg beygi kné og stari út á hafið,
þar aldan drynur dimmum feigðar óm
í dapurt hjarta, sorgarstrengjum vafið.

Þú hverfulleikans tæpa, fleyga tíð,
með tár og sár og vonir, þrá og gleði,
við sólarglóð og stormsins kalda stríð
er stefnan söm að dimmum feigðarbeði.

Nú titra hjörtun, harmi særð, við gröf,
er húm og þögn á dagsins vonir breiðir.
Þar liggur falin göfug drottins gjöf,
sem geislum krýnir farnar æfileiðir.

Minn kæri son, þá sólin lýsti hæst,
hin svarta nótt úr heiðu lofti dundi,
og dagsins von, er vakti hjarta næst,
sig vefur nú í þínum hinzta blundi.

Þín stutta leið var stefnuföst og há,
með sterka þrá að verða nýtur drengur;
og því er tár á þreyttra vina brá,
sem þinna kosta notið fá ei lengur.

Með hverju stundar stríði huggun finst,
er stefnir sjón að himins ljósi björtu;
í helgri þökk skal þeirra daga minst,
sem þér var leyft að gleðja vina hjörtu.

Nú hnípa systur, móðir grætur mög,
og mæddur faðir horfir yfir veginn.
En burt með sorg, því lífsins djúpu lög
þau leggja saman brautir hinumegin.

---

## Páll Sigfússon.

(1913. — Fyrir hönd vandamanna og vina.)

Þú fylgdir oss lengi og lagðir það til,
sem létti oss byrðina þungu;
til bræðranna sendir þú ástríkan yl
frá íslenzku hjarta og tungu;
en nú ert þú fallinn og falinn í gröf,
þinn ferill að takmarki runninn;
hinn eilífi friður er fenginn að gjöf,
í fyllingu sigurinn unninn.

Þú starfaðir dyggur á stundanna braut
og stétt þína mattir að rétta,
og stefndir við skinið og skúranna þraut
að skyldunnar takmarki settu;
með ástvinum tryggur í stríði þú stóðst
af sterkum og góðfúsum vilja;
þann minningarvarða af mannúð þú hlóðst,
sem megnar ei dauðinn að hylja.

Með norrænu þoli í frumbýlings för
þig fýsti að verjast og sækja,
og lézt ekki bugast, þó köld væru kjör,
af kappi þitt hlutverk að rækja;
á samfundum bræðra þú velkominn varst
með vinhlýja geðið að styðja,
og skerf þinn með drengskap af byrðinni barst
á braut, sem var örðugt að ryðja.

Nú fagna þeir vinir, sem vita það bezt,
að verk þín í dygðunum skína;
það huggar og lyftir, þá sólin er sezt,
að sjá yfir leiðina þína.
Haf þökk fyrir starfið og daganna dvöl,
hvert drengskapar atvik og sporið;
í eilífum friði, því búið er böl,
þér brosir nú himneska vorið.

## Jóhann Pálsson.

(1912.)

Hvíl nú, vinur, vært í mold,
vafinn hinzta beði.
Dýrleg yfir dauðans fold
drotnar himins gleði.
Minning vígir muna kær
marga liðna daga.
Letruð móti ljósi hlær
leiðin þín og saga.

Hjá þér gleðin eilíf ól
yl og trú í hjarta;
vermdur lífsins sigur sól
sástu æ hið bjarta.
Því var fylgdin hugar hlý
hópi þinna vina;
bróður þel við skin og ský
skreytti samleiðina.

Margur þekti þig á braut
þessa hröðu daga;
söm var lund í sæld og þraut,
sama hvöt að laga.
Tállaus vina- trygð og geð
tengd er minning þinni.

Þú varst drengur drengjum með
dags í framsókninni.

Grátum ekki liðna leið,
ljós er húmi stærra.
Hvert eitt stigið stunda skeið
stefnir sjónum hærra.
Þegar vinir falla frá,
fögnuð vonin gefur,
öll er goldin þraut og þrá
þeim, er sigrað hefur.

---

## Guðmundur Sigurðsson

frá Tjörn í Skagafirði.

Nú er holdið kyrt og kalt,
krýndur æfidagur;
laugar minning lífið alt
ljóssins röðull fagur.

Lágt í mold þó hafi hel
höldsins brotið strengi,
lífsins stríða stundaél
stóðstu fast og lengi.

Man eg fyr um fanna leið
fjörið brann í taugum,
þegar léztu skríða skeið
skarpt á hrannar laugum.

Marga stund um báru ból
bar þig knörinn fagur;
hló við tiginn Tindastól
tímans auðnu hagur.

Gamla Drangey, Grettis skjól,
girt af svölum legi,
frægði þitt — um þara ból —
þrek á vorsins degi.

Gegnum klungur gekstu spor,
glaður, hreinn og djarfur,
norræn hreysti, þol og þor
þinn var móðurarfur.

Lífs við gleði-glaum og tál
glóði myndin bjarta:
Íslands sögu sigurstál
söng þér inst í hjarta.

Þér var storðin kinna-köld
knýtt við hjartarætur;

fyrir þetta þúsundföld
þökk á leiði grætur.

Hvíldu rótt við skin og skjól,
skært og blítt í heiði;
vorra feðra sigur-sól
signir þögult leiði.

---

## Marínó Jóhn Johnson.

(1919. — Fyrir hönd foreldranna.)

Svo hjartfólginn okkur frá úngbarnsins tíð,
með árum við sáum hann dafna
sem blómin á vordegi viðkvæm og fríð,
er vaxa og skrautinu safna.

Með saklausri gleði við árdegis yl
hann ástvinum stundirnar létti;
það æðsta og bezta, sem æskan á til,
að okkur hann fúslega rétti.

En fallvölt er gleðin og æfinnar ár
með atvikin hverfandi tíða,

og drengurinn kæri varð sjúkur og sár,
við sáum hann stríða og líða.

Hann kvaddi með vorið í saklausri sál,
hin sólríku, vonbjörtu árin,
því dauðinn er kaldur og sterkur sem stál,
þar stoða ei bænir né tárin.

Og friðurinn signdi hans bliknuðu brár,
því búið var helstríðið þunga,
en líknandi faðm breiddi himininn hár
mót hugljúfa sveininum unga.

---

## Jón V. Dalmann.

Nú stafar geislum kvöldið kyrt
með kall af fjarri strönd;
en holdið sefur, hljótt og stirt,
í húmsins vafið bönd.
Að baki gengin ljómar leið,
þar lifir minning hans,
er hefir sigrað hinztu neyð
og hlotð friðar krans.

Já, fáir reynast þeir sem þú,
í þraut og gleði hreinn,
með drenglynt hjarta, trygð og trú,
sem tældi aldrei neinn.
Hve sælt, þar heimsins enda ár,
en eilíf byrjar ró,
að hafa engum höggvið sár,
en haldið velli þó.

Við gengum saman langa leið,
með lífsins hret og skjól,
og blómin greru himin heið
mót helgri dagsins sól.
Þín orð og verk ei voru tál,
með vinfast geð í þraut;
þú áttir glaða, göfga sál,
er geislum skreytti braut.

Með glögga sjón við tímans tafl
þú tæpa mældir leið.
Vor feðra göfgi gaf þér afl,
að ganga manndóms skeið.
Já, Dalmann, þú varst drengur trúr
við daga þinna starf.
Nú ert þú feigðar fjötrum úr
með frið og ljós í arf.

# Hallur Hallsson.

(Tengdafaðir höfundarins.)

Við andlát þitt mér óður hljómar blíður,
þar atvik liðin segja mörgu frá,
þá lýsti vorsins vonardagur fríður,
í vinar skjóli þér eg undi hjá;
þar brann mér sól frá blómi vorsins ungu,
er böndum tengdi mig við þína ætt.
Já, þá var líf í ljóði, hug og tungu,
er lagði málin öll í gerð og sætt.

Í Réttarholti hádags sól þér brosti,
þar hófst þú skjöld í fremstu bænda stétt;
og margir þektu þína góðu kosti:
nær þörfin krafði, fram var höndin rétt.
Já, þú varst bygðar þinnar hvöt og styrkur,
með þor og dug á lífsins skyldubraut,
ef særðan bróður mæddi tímans myrkur,
þín mannúð skein og breiddi ljós á þraut.

Þar sást þú marga sumardaga blíða,
á sælum garði auðnan brosti við,
þá gylti Skagafjörðinn meginfríða
hið fagra skraut, með blárra strauma klið.

Eg man, þá okkar lágu saman leiðir
með líf og fjör við tímans glaum og strit;
sú endurminning bjarta geisla breiðir
á braut og hljómar gegnum stormins þyt.

Við hret og skin um hála æfivegi
með hjarta blítt, þú sannur drengur varst;
og þó að stundum yrði dimt á degi,
af dug og kappi þú hið stríða barst;
þér lyfti trú og traust á mátt hins góða,
og trygð; er vinum jafnan reyndist föst;
þar áttir þú hinn göfga sálar gróða,
sem glatast ei við heimsins straumaköst.

Þig flutti hingað atvikanna alda,
með æfidaga veðrabrigðin hörð,
og haustið leið með húm og gustinn kalda,
unz hneigstu nár á bleika dauðans jörð.
En nú er vor, að loknu lífsins stríði,
í ljóssins dýrð hjá þinna vina sveit;
þar ekkert framar krenkir böl né kvíði,
en kærleikssólin vermir björt og heit.

---

Þér vinir, börn og brúður þakkir færa;
þú barst sem drengur gleði lífs og tár.

Hvert böl og missir bendir oss að læra
og blíðri minning vefur horfin ár.
Já, þú ert fallinn; frelsis brosa leiðir
í friði þeim, sem eilíf dygðin skín,
sú huggun yfir allan söknuð breiðir,
þá ást og von er merkti sporin þín.

# Efnisyfirlit.

## Minni.

Bls.

## Erfiljóð.

